# Bréf Hórazar.

Gísli Magnússon og Jón Þorkelsson

íslenzkuðu.

Reykjavík 1886.
Ísafoldarprentsmiðja.

# Fyrri bókin.

## Fyrsta bréf

til

### Mecenasar.

Þú reynir, Mecenas, er eg hefi fyrst um kveðið og mér byrjar síðast um að kveða, að lykja mig aftr inn í hið forna leikmannahús, og hafa menn þó þegar nógsamlega á mig horft og mér hefir verið gefinn lausnarstafr. Eg er nú eigi á sömu árunum, sem eg var áðr, og eigi svo skapi farinn. Vejaníus hefir hengt upp vopn sín í hof Herkúls, hefir farið í felur upp í sveit og dylst þar, til þess að hann þurfi eigi að leggja svo oft að lýðnum með bœnum sínum yzt á sandinum. Einhver rödd hljómar oftlega um hið hreinsaða eyra mitt: Vertu svo hygginn, segir röddin, að leysa hest þinn, er farinn er að eldast, frá vagni þínum í tœkan tíma, til þess að hann hrasi eigi að lokunum, gangi upp og niðr af mœði, og verði svo að athlœgi. Fyrir því legg eg nú niðr kveðskap og annað leikfang, og gref vandlega eftir, hvað rétt sé og sœmilegt, og gef mig allan við því, og hirði og kem fyrir hjá mér forða, er eg megi síðar til taka.

Enn til þess að þú nú eigi þurfir að spyrja, hverjum leiðtoga eg fylgi, eða hvert húsgoð eg hafi mér til varðveizlu, þá læt eg þig vita, að eg hefi eigi skuldbundið mig til að vinna eið að orðum nokkurs meistara, heldr berst eg sem gestr, hvert sem vindrinn fleygir mér. Stundum gerist eg starfsamr og sökkvi mér niðr í öldur stjórnmálanna, gæti sannrar manndáðar og þjóna henni með atorku; stundum hverf eg aftr óafvitandi að kenningu Aristipps, og reyni að

leggja gœði heimsins undir mig, enn varast að leggja mig sjálfan undir þau.

Svo sem þeim þykir nóttin löng, er vinkona þeirra bregzt, og dagrinn þykir þeim langr, er verk eiga af hendi að leysa, og svo sem ósjálfráðum börnum þykir árið seint líða, þeim er eiga að búa við harða gæzlu mœðra sinna, svo þykja mér þeir tímarnir líða seint og óþægilega, er hefta von mína og fyrirætlun, að ganga að því með atorku, er gagnar jafnt fátœkum sem auðgum, ef þess er gætt, enn mun skaða jafnt unga menn sem gamla, ef það er vanrœkt.

Nú er það eitt eftir, að eg stjórni sjálfum mér og huggi mig með þessum frumfrœðum. Þótt menn hafi eigi svo hvassa sjón sem Lyncevs, munu þeir þó eigi þar fyrir vanrœkja, að bera smyrsl á augu sín, ef þeir eru augnveikir, og eigi munu menn vanrœkja, að varðveita limi sína fyrir hinni hnútóttu handsýki, þótt þeir geti eigi gert sér von um limastyrk hins ósigranlega Glýkons. Að vissu takmarki má komast, þótt eigi verði farið út fyrir það. Ef brjóst vort brennr af ágirnd og aumlegri fégirni, þá eru til orð og ummæli, er vér fáum linað þjáning þessa með og losað oss við mikinn hluta sjúkleiks þessa.

Ef lofgirni svellr í hjarta þínu, þá eru til nokkur þau friðþægingarmeðöl, er munu geta hrest þig, þá er þú hefir þrysvar lesið blaðið með hreinum hug. Enginn öfundsjúkr maðr, enginn reiðigjarn maðr, enginn dáðleysingi, enginn ofdrykkjumaðr, enginn kvennamaðr er svo ósiðaðr, að hann geti eigi mýkzt, ef hann að eins ljær mentuninni þolinmóðlega eyra sitt.

Það er dygð að sneiða hjá lesti, og upphaf speki er að losast við heimsku. Vér sjáum, hve mikið vér leggjum á oss á sál og líkama, til þess að vér getim forðazt það, er vér hyggjum mest mein vera, enn það eru litlir fjármunir og sneypuleg embættasynjun. Menn fara ótrauðir í kaupferðir til Indverja, er allra þjóða eru fjarlægastir, til þess að þeir geti sneitt hjá fátœktinni, og skunda yfir haf, kletta og eld. Vilja menn þá eigi nema og frœðast og trúa þeim, er betr veit, til þess að þeir leggi eigi hug á það, er þeir af fákœnsku sinni dást að og œskja? Hver

hnefleiksmaðr, er vanr er að berjast í þorpum og á gatnamótum, mun drepa hendi við krýningu í hinum miklu ólympsku leikum, ef hann getr gert sér von um hina þægilegu pálmviðargrein, og á kost á að fá hana fyrirhafnarlaust.

'Silfr er verðminna enn gull, og gull verðminna enn mannkostir. Brœðr, brœðr, fyrst er að leita fjár, enn síðan mannkosta, er féð er fengið'. Þetta er kent frá hinum efstu hvelfigöngum til hinna neðstu. Þessa leksíu þylja bæði ungir og gamlir, er hafa stokkinn og spjaldið hangandi á vinstra armi sér. Þótt vér hafim mannvit, siðprýði, málsnild og ráðvendni, verðum vér þó taldir með alþýðumönnum, ef oss vantar 6 eða 7 þúsundir í að eiga fjögur hundruð þúsund sextáneyringa; enn er ungir sveinar leika sér, segja þeir: 'Þú skalt vera konungr, ef þú hefir rétt við'. Það sé eirveggr vor, að vera oss einskis ills meðvitandi, og þurfa eigi að blikna fyrir nokkra ávirðing. Segðu mér, kunningi: Hvort er betra, lögmál Roscius' eða ummæli hinna ungu sveina, er veita þeim konungdóm, er rétt hafa við, þessi ummæli, er hinir karlmannlegu Kúríar og Kamillar höfðu fyrir munni sér? Hvort ræðr sá þér betr, er segir, að þú skulir afla þér fjár, og það á réttan hátt, ef þú getr, enn annars kostar með hverju móti er verða má, svo að þú getir setið nærr, til þess að horfa á hina grátlegu sjónleika Púpíus', eða sá, er hvetr þig öfluglega og gerir þig hæfan til að rísa frjálslega og einarðlega upp á mót hinni drambsömu hamingju.

Ef nú Rómlýðr kann að spyrja mig, hvers vegna eg hafi ekki sömu skoðanir, sem hann, eins og eg geng í hinum sömu stólpagöngum, sem hann, og hvers vegna eg aðhyllist eigi það eða forðist, er hann sjálfr ann eða hefir óbeit á, þá mun eg svara því, er varkár refr svaraði eitt sinn sjúku ljóni: 'Það kemr til af því, að förin fæla mig; þau liggja öll að þér, enn ekkert þeirra frá þér aftr'. Þú ert óarga dýr með mörgum höfðum. Eftir hverju á eg þá að fara eða hverjum á eg að fylgja? Sumir hafa allan hug sinn á alþjóðlegum leigingum; sumir veiða ágjarnar ógiftar konur með sœtabrauði og eplum, og reyna til að ná í gamalmenni,

er þeir fái hleypt í dýragerði eða fiskitjarnir. Margir auka efni sín með leynilegu okri. Enn látum nú svo vera, að sitt geðjist hverjum. Getr þá sami maðrinn unað hinu sama stundinni lengr? Ef auðmaðr segir: 'Enginn fjörðr í heimi ber að fegrð af hinum yndislega firði við Bajæ', þá fær stöðuvatnið þar og hafið að finna til ástar hins hraðfara húsbónda; enn ef dutlungasöm girnd gefr honum síðan vitrun, þá munuð þér, smiðir, verða að fara á morgun með tól yðar til Teansborgar. Ef hvíla fœðingargoðsins stendr í stofu hins auðga manns, þá segir hann, að ekkert sé fremra og ekkert sé betra enn einlífið; enn ef þar er engin hvíla, þá sver hann og sárt við leggr, að kvonguðum mönnum einum líði vel. Hvernig á eg að halda Prótevs, er bregðr sér í ýmsar myndir? Hvað gerir fátœklingrinn? Það er hlœgilegt; hann skiftir um herbergi, matsöluhús, böð og skeggrakara, og kvelst jafnt af sjósótt á leigðum bát, sem auðmaðrinn, er fer á þrennæringi, þeim er hann á sjálfr. Ef eg mœti þér með ójafnt kliptu hári, þá hlær þú; ef eg hefi slitna skyrtu undir nýjum kyrtli, eða ef kápa mín fer illa, þá hlær þú; enn hvað gerir þú þá, er hugr minn berst við sjálfan sig; hafnar því, er hann hefir eftir sótt; leitar þess aftr, er hann hefir nýslept; er allr á reiki og sjálfum sér ósamkvæmr í allri tilhögun lífsins; rífr niðr og reisir og telr það kringlótt, er ferhyrnt er: Þá ætlar þú, að eg sé eigi vitlausari, enn fólk er flest, og hlær eigi og hyggr eigi, að eg þurfi læknis við, eða fjárhaldsmanns, er dómstjórinn setji, og þó ert þú verndari minn, og reiðist, þó að eigi sé annað, enn að nögl sé illa skorin á vini þínum, er á alt sitt athvarf, þar sem þú ert, og hefir alt sitt traust á þér einum. Skjótt að segja: Spakr maðr er Júppíter einum minni; hann er auðugr, hann er frjáls, hann er í hávegum hafðr, hann er fagr ásýndum, og í stuttu máli: hann er konungr konunganna; sér í lagi er hann heilbrigðr, nema þá er kvefið þjáir hann.

# Annað bréf
til
## Lolliusar.

Meðan þú, Maxímus Lollíus, hefir tamið þér mælsku í Rómi, hefi eg í Prenestsborg endrlesið þann ritsmið, er kveðið hefir um styrjöldina við Tróju; segir hann glöggvara og betr, enn þeir Krýsippus og Krantor, hvað fagrt sé og ljótt, og hvað nytsamlegt sé og ónytsamlegt. Ef þú ert eigi við annað bundinn, þá taktu eftir, hví eg hefi komizt á þessa ætlun.

Saga sú, er segir frá því, að Grikkland hafi lent í langvinnri styrjöld við útlendinga sakir ástar París', hermir frá ofsa óvitra konunga og þjóða. Antenor leggr það til, að orsök styrjaldarinnar sé brott numin. Hvað gerir París? Hann segir, að sér verði ekki þröngvað til að sitja heill að ríkjum og lifa sælu lífi. Nestor leggr kapp á að sefa deilurnar milli þeirra Pelevssonar og Atrevssonar; ástin brennir annan þeirra, enn reiðin báða þá sameiginlega. Alt vanvit konunganna kemr niðr á Acheum. Flokkadrættir, vélar, glœpir, losti og reiði valda misgerðum fyrir innan og utan múra Ilíonsborgar.

Í öðru lagi hefir hinn sami höfundr sýnt oss með hinu nytsama dœmi Úlixes', hvað manndáð og speki fái að gert. Úlixes vann Tróju, og kynti sér síðan með miklum vitrleik borgir margra manna og siðu þeirra; hlaut hann að þola margar mannraunir á leið sinni yfir hið víða haf, er hann leitaði sér og förunautum sínum heimkomu, og lét þó eigi drekkjast í andstœðilegum öldum mótlætinganna. Þú þekkir raddir Sírena og staup Kirku. Ef Úlixes hefði heimsklega og girndarsamlega tœmt þau með félögum sínum, mundi hann hafa orðið að lifa við smán og vitfirring undir yfirráðum lauslátrar húsmóður, og verið sem óþrifalegr rakki eða saurelskt svín. Vér erum höfðatalan ein og að eins fœddir til að neyta ávaxta jarðarinnar; vér erum sem biðlar Penelópu, dáðleysingjar, sem hinir ungu hirðmenn Alkínóus', er stunduðu meir, enn vera bar, að ræsta

húð sína, er það var sœmilegt, að sofa fram á miðjan dag, og þagga síðan niðr áhyggjur sínar við hörpuglamr.

Ræningjar rísa upp um nætr til þess að drepa menn; vilt þú þá eigi vakna, til þess að bjarga sjálfum þér? Og þó verðr þú að hlaupa vatnsjúkr, ef þú vilt eigi gera það heilbrigðr; og ef þú beiðist eigi bókar og ljóss fyrir dag, og leggr eigi hug á sómasamlegar iðnir og störf, þá muntu kveljast andvaka af öfund eða ást. Þvíað hví hraðar þú þér að nema það brott, er gerir auga þínu mein, enn dregr lækninguna árlangt, ef eitthvað nagar hjarta þitt? Sá hefir hálfnað verkið, er hefir hafið það. Hafðu áræði til að leita vizku, byrjaðu. Þeim manni, er frestar því að lifa réttlega, fer sem bóndanum, er bíðr þess, að áin renni til þurðar; enn hún rennr og mun renna iðandi um aldr og ævi.

Menn leita sér fjár og auðugrar konu, er þeir megi börn við ala; menn yrkja órœktaða skóga með plógskera. Sá œski einskis meira, er nœgilegt hlotnast. Það eru eigi hús og lönd, eigi hrúgur af eiri og gulli, er draga riðusóttir úr sjúkum líkama eigandans, eða áhyggjur úr sálu hans. Eigandinn hlýtr að vera heilbrigðr, ef hann hugsar til að njóta þess vel, er hann hefir aflað. Sá maðr, er girnist eitthvað eða óttast, hefir jafnmikið yndi af húseign sinni eða fé, sem augnsjúkr maðr af litmyndum, eða fótsjúkr af bökstrum, eða eyru þau af gígjuhljómi, er saur hefir í sezt og meiðir. Ef kerið er eigi hreint, súrnar alt það, er í það er látið.

Forðastu munað; sú unaðsemd skaðar, er harmi er keypt. Ágjarn maðr er jafnan þurfandi; leitaðu ósk þinni víss endimarks. Öfundsjúkr maðr megrast af sællegum hag náungans; eigi hafa harðstjórarnir á Sikiley fundið tilfinnanlegra píslarfœri, enn öfundin er. Sá, er eigi hefir stjórn á reiði sinni, mun œskja þess, að það sé ógert, er harmr hans og hugr hvatti hann til, meðan hann með ofsa hraðaði sér að fullnœgja með hefnd hinu ósvalaða hatri sínu. Reiðin er stutt œði. Stýr hug þínum, þvíað hann stjórnar, ef hann hlýðir eigi; legg beizli við hann og hald honum í stilli með fjötri. Meðan makki hestsins er grannr og hestrinn því auðvaninn, kennir tamningarmaðrinn honum að fara þann veg, er reiðmaðrinn bendir á; þá er hvolprinn hefir um

hríð gelt að hjartbelg úti í garði, er hann hafðr til veiða í skógum úti. Nem *nú* þarfleg frœði, meðan þú ert ungr og brjóst þitt óflekkað, og aðhylst þá menn, er betr vita, enn þú. Kerið mun lengi varðveita þann ilm, er komizt hefir í það nýtt. Ef þú gengr mjög hœgt eða fer hart á undan, þá bíð eg hvorki eftir þeim, er seinn er, né eltist við þá, er undan fara.

## Þriðja bréf
til
### Júlíus' Flórusar.

Júlíus Flórus, mig fýsir að vita, í hverjum hálfum heimsins Kládíus, stjúpsonr Ágústs, er í hernaði. Dvelst yðr í Þraklandi og við hina snæfjötruðu Hebrus-á, eða við sund það, er liggr milli hinna nástœðu stöpla? eða dvelja yðr hinir frjóvu vellir og hæðir Asíu. Hvað hefir hinn fróði föruneytisflokkr fyrir stafni? Mig fýsir að vita það. Hver tekr sér fyrir hendr að rita um afreksverks Ágústs? Hver viðfrægir svo styrjaldir hans og friðgerðir, að þær verði lengi í minnum hafðar? Hvað gerir Títíus, er bráðum mun komast í munna manna í Rómi, og hefir eigi bliknað við teyga úr lind Pindars og hefir dirfzt að fyrirlíta tjarnir þær og lœki, er allir eiga að gengt. Hvernig líðr honum? Man hann eftir mér? Leitar hann við að slá þebverska slagi á latnesk strengtól með fulltingi sönggyðjunnar? Eða ryðst hann um með glæsilegu orðskrúði í harmleikslistinni? Hvað hefst Celsus minn að? Hann hefir verið áminntr og þarf vandlega að áminnast, að hann afli sér sjálfr birgða, og varist að snerta nokkur þau rit, er Apolló á Palatshæð hefir tekið í vernd sína, til þess að eigi fari svo, ef fuglaflokkrinn kemr einhverju sinni að sœkja aftr fjaðrir sínar, að Celsus verði þá, sem krákukindin, sviftr hinni stolnu litfegrð, og verði svo að athlœgi. Hvað áræðir þú sjálfr? Umhverfis hvaða blóðberg flýgr þú starfsamr? Þú hefir eigi lítið mannvit, né órœktað og ljótlega lubbalegt. Hvort sem þú liðkar tungu þína til málflutnings, eða þú býr þig undir að leiðbeina mönnum í landslögum, eða þú semr unaðlegt kvæði, þá muntu manna fyrstr hljóta að launum

bergfléttuna sem sigrvegari. Ef þú mættir skiljast við kaldar umbúðir áhyggnanna, mundir þú leita þangað, er himnesk speki leiðir þig. Vér skulum, hvort sem vér eigum mikið undir oss eða lítið, stunda þetta starf og þessa iðn, ef vér viljum lifa kærir ættborg vorri og sjálfum oss. Þú átt og að rita mér, hvort þér er svo ant um Múnatíus, sem vera byrjar, eða hvort illa grœr um sátt ykkra, og sárið hleypr saman til einskis og rofnar aftr. Enn hvort sem heitt blóð eða reynsluleysi verðr ykkr að meini, með því að þið eruð harðsvíraðir og því ótillátsamir, þá sœmir ykkr eigi að rjúfa bróðurlegt sáttmál, hvar sem þið alið aldr ykkarn. Heitkvíga er á beit hjá mér og bíðr heimkomu ykkarrar.

## Fjórða bréf
til
### Albíus' Tíbúlls.

Albíus, þú hinn hreinskilni dómari hversdagsljóða minna, hvað skal eg segja að þú gerir nú í Pedborgarbygð? Á eg að segja, að þú sért að semja eitthvað það, er beri af smáritum Kassíus' frá Pörmu, eða að þú reikir þegjandi um heilnæma skóga, og íhugir sérhvað það, er vitrum manni og góðum er samboðið? Þú varst eigi sálarlaus líkami. Guðirnir hafa veitt þér fegrð og auðlegð og kunnáttu til að njóta hennar. Hvers getr fóstra framar óskað ástúðlegum fóstrsyni, er vel er viti borinn og getr komið orðum að því, er honum býr í brjósti, og öðlast í fullum mæli vinsæld, gott mannorð, góða heilsu, hreinlegt viðrværi og nœgilegt fé í pyngju sinni? Ímyndaðu þér, þar sem þú lifir milli vonar og áhyggna, milli ótta og reiði, að hver dagrinn, er upp rennr yfir þér, sé þinn hinn síðasti. Hver sú stund, er vér gerum oss eigi von um, mun verða þægileg, er hún kemr yfir oss. Þá er þú vilt hlæja að grís af hjörð Epíkúrs, getr þú komið til mín og munt sjá mig feitan og gljáanda með vel hirtri húð.

# Fimta bréf
til
## Torkvats.

Ef þú getr fengið af þér að koma í samkvæmi og hallà þér niðr á borðbekki eftir Archías, og gerir þig ánœgðan með að snæða hvers konar kálmeti úr lítilli skál, ætla eg að bíða þín heima hjá mér, Torkvatus, um sólarfall. Þú munt fá vín að drekka, er helt hefir verið á geymiker milli hinnar mýrlendu Míntúrnsborgar og Petríns við Sínúessu það ár, er Tárus var ræðismaðr í annað sinn. Ef þú hefir sjálfr betra vín, þá skaltu hafa það með þér; að öðrum kosti verðr þú að láta þér lynda það, sem eg hefi að bjóða. Arinn minn og húsgögn mín hafa þegar lengi ljómað fáguð þér til virðingar. Slepp hégómlegum vonum, kappi um auðlegð og máli Moschs. Afmælishátíð Cesars á morgun mun veita oss leyfi og svefn, og munum vér því að ósekju geta lengt daginn fram á sumarnóttina með vinsamlegu hjali. Til hvers eru eigurnar mér, ef eg fæ eigi að njóta þeirra? Sá maðr, sem er sparsamr af umhyggju fyrir erfingja sínum og of strangr við sjálfan sig, sitr á bekk með vitfirringi; eg ætla að fara að drekka og strá blómum, og hirða eigi um, þótt eg verði jafnvel kallaðr ráðlaus. Hvað er það, sem víndrykkjan getr eigi til leiðar komið? Hún birtir það, sem hulið er. Hún lætr vonir manna rœtast; knýr dáðleysingja fram til bardaga, tekr byrði af hugsjúkum sálum og kennir oss nýjar listir. Hvern hafa hinir frjófgandi bikarar eigi gert orðsnjallan? Hvern hafa þeir eigi gert frjálsan í krappri fátœkt? Eg tek að mér þann starfa, sem eg er vel til fallinn og eigi ófús á, að sjá um, að óþrifalegr randdúkr eða óhreinn brjóstdúkr hleypi eigi hrukkum á nef þér, og að þú getir séð þig í borðkönnu og borðfati, og að enginn sé meðal hinna trúu vina, er beri það út, er talað er, og að líkr sœki líkan heim og eigi skifti við hann. Eg ætla að láta Bútru og Septicius koma með þér, svo og Sabín, ef hann er eigi bundinn við fyrra heimboð og stúlku, sem honum þykir vænna um enn boð mitt. Hér geta og nokkrir aukaboðsmenn komizt fyrir,

enn svitaþefrinn verðr óþægilegr í þeim samkvæmum, þar sem of þröngt er. Rita þú mér aftr, hve mannmargr þú vilt vera. Slepp öllum störfum og skjózt út um bakdyrnar frá skjólstœðingi þínum, er bíðr þín í stofunni.

## Sétta bréf
til
### Numicíusar.

Að láta sér ekkert miklast, Numicíus, er nálega það eitt og ekkert annað, er geti gert manninn sælan og haldið sælu hans við. Sumir horfa án alls ótta á sól og stjörnur og tímana, er líða með staðbundinni rás. Hvað ætlar þú um gjafir jarðarinnar eða hafsins, er auðgar Araba og Indverja, er búa manna lengst burtu; hvað um sjónleika, lófaklapp og gjafir hinna vinveittu Kvíringa? Á hvern hátt ætlar þú að menn eigi að horfa á þetta, með hverri tilfinningu og yfirbragði?

Þeim manni, sem óttast það, er þessu er gagnstœtt, finst mikið til nálega á sama hátt sem þeim, er girnist; áköf geðshrœring er óþægileg hjá hvorum tveggja, jafnskjótt sem óvæntr hlutr raskar ró þeirra beggja. Hverju skiftir, hvort þeir eru glaðir eða hryggvir, hvort þeir girnast eitthvað eða óttast, ef þeir glápa og eru agndofa á sálu og líkama, hvað sem þeir sjá, það er betra er eða verra, enn þeir áttu von á? Vitr maðr má óvitr heita, og sanngjarn maðr ósanngjarn, ef hann leitar jafnvel dygðarinnar sjálfrar fram yfir það, er nœgilegt er.

Far nú og lát þér finnast mikið til silfrsmíðis, forns marmarasmíðis, eirsmíðis og listaverka; dást að týrverskum litum og gimsteinum, lát þér vænt um þykja, að þúsund augu horfa á þig, er þú talar. Ver ötull og far árla til torgs um morgna og seint heim um kveld, til þess að Mútus skeri eigi meira korn upp af ökrum sínum, þeim er hann hefir fengið í heimanfylgju með konu sinni, og til þess að þér þurfi eigi fremr að þykja mikið til hans koma, enn honum til þín, þvíað það er óviðrkvæmilegt, með því að hann er af lakari ættum enn þú. Sérhvað það, sem er í jörðu niðri, mun tíminn í ljós leiða; enn grafa það niðr og

byrgja, er mikið ber á. Þótt þú verðir þjóðkunnr og hafir oft sézt í súlnagöngum Agrippu og á Appíusvegi, áttu þó eftir að fara þangað niðr, er þeir Núma og Ankus eru áðr farnir.

Ef harðr verkr legst undir síðu þér eða í nýru þín, þá skaltu leita lækninga við sjúkdómi þínum. Vilt þú lifa réttlega? Hver vill það eigi? Ef dygðin ein getr veitt þetta, þá skaltu stunda hana með atorku og sleppa unaðsemdum.

Ef þú ætlar, að dygðin sé orðin ein eins og sumir hyggja að heilagr lundr sé viðr einn, þá gjald þú varhuga við, að enginn annar komist fyrr til hafna enn þú, til þess að þú missir eigi verzlunar þinnar í Cíbýru eða Bíþýnafylki. Legðu þúsund vogir í hrúgu, og aðrar þúsund, og enn skal hin þriðja þúsund við bœtast, og enn fjórða þúsundin, er ferskeyti hrúguna. Þvíað Auðlegð drottning veitir manni konu með heimanfylgju, traust og vini, ættgöfgi og fagra ásýnd; og Fortölugift og Fegrð prýðir þann, er vel er fjáðr.

Konungr Kappadóka er auðugr að mani, enn fésnauðr; ver eigi snauðr sem hann. . Mælt er, að Lúkúllus hafi einhverju sinni verið að spurðr, hvort hann gæti léð hundrað purpuraskikkjur handa leiksviðinu, og er þá sagt, að hann hafi svarað: 'Hvernig get eg léð svo margar? Þó skal eg leita og senda svo margar sem eg hefi'. Skömmu síðar ritar hann, að hann hafi fimm þúsund skikkjur heima hjá sér, og mætti taka sumar eða allar.

Fátœklegt er það hús, þar sem eigi er margt afgangs, það sem húsbóndinn veit eigi af og verðr þjófum að notum. Ef því féð eitt getr gert manninn sælan og haldið sælu hans við, þá skaltu manna fyrstr endrtaka þessa iðn og hverfa frá henni manna síðastr. Enn ef tignarmót og vinsæld af alþýðu gera manninn sælan, þá skulum vér kaupa oss þræl til að segja oss nöfn manna, hnippa í vinstri hlið vora og neyða oss til að rétta hina hœgri hönd yfir metin. Þessi maðr má mikið, segir nafnsögumaðr, í Fabíasveit, enn þessi í Velvatnssveit; þessi mun veita vandbundinin hverjum, sem hann vill, og mun geta orðið svo ónotalegr, að taka fílbeinsstólinn frá hverjum sem honum lízt. Bœt því og við kveðju þína, að kalla hvern þeirra bróður eða

föður, og ættleið hvern kurteislega, eftir því sem hann hefir aldr til.

Ef sá lifir farsællega, er vel matast, þá skulum vér fara með birtingu þangað, sem maginn leiðir oss; vér skulum fiska og fara á dýraveiðar, svo sem Gargilíus forðum gerði; hann lét þræla sína árdegis taka veiðinet og veiðispjót, og fara með þau yfir torgið fult af fólki, til þess að lýðrinn sæi einn af hinum mörgu múlum koma aftr með keypt villisvín. Laugum oss, áðr enn matrinn hefir melzt og sjatnað í maganum, og gleymum, hvað sœmir og eigi sœmir, svo að vér eigum skilið, að vera ritaðir á vaxspjald Cerverja, líkir hinu lastauðga róðrarhyski Úlixes' Íþakseyings, því er mat meira bannaðan munað enn ættland sitt.

Ef ekkert er þægilegt án ástar og gamans, svo sem Mímnermus ætlar, þá skaltu lifa við ást og gaman.

Vertu nú sæll og líði þér vel. Ef þú þekkir eitthvað, sem réttara er enn þetta, þá seg mér það í hreinskilni; enn sé eigi svo, þá neyt þess með mér, er hér er mælt.

## Sjöunda bréf
til
### Mecenasar.

Eg hafði lofað þér að vera að eins fimm daga tíma uppi í sveit, enn reynist nú lausmáll og læt mig vanta allan Sextílismánuð. Enn ef þú, Mecenas, vilt, að eg lifi heill heilsu og að mér líði vel, verðr þú þó að veita mér hið sama tillæti, þegar eg er hræddr um, að eg sýkist, er þú veitir mér sjúkum, meðan hinn fyrsti þroskatími fíkjunnar og hitinn skreyta greftrunarstjórann með svartklæddum þjónum, og meðan hver faðir og hver viðkvæm móðir er hrædd um börn sín, og meðan greiðvikin þjónustusemi og smástörf á torginu valda riðusóttum og opna erfðaskrár. Enn er skammdegi kemr og snær fellr á héraðið við Ölbu, þá mun skáld þitt hverfa niðr til sjávar, fara varlega með sig, hnypra sig saman og lesa; enn er vestanvindarnir taka aftr að blása og hin fyrsta svala kemr, þá mun skáldið aftr heimsœkja þig, ástúðlegi vinr, ef þú leyfir það.

Þú hefir eigi auðgað mig á sama hátt, sem húsráðandinn

í Kalabríu býðr gesti sínum að borða perur. Borðaðu, kunningi, segir hann. Eg hefi nú fengið nóg, segir gestr. Taktu þá með þér svo mikið sem þú vilt, segir húsráðandi. Nei, eg þakka fyrir, segir gestr. Þessar litlu gjafir munu eigi koma börnum þínum illa, segir húsráðandi. Söm er þín gerðin, segir gestr, sem þótt eg fœri klyfjaðr heim. Þú rœðr, segir húsráðandi; ef þú skilr þetta eftir, fá grísirnir það í dag.

Eyðslusamr maðr og óvitr gefr það, er hann sjálfr smáir og virðir að vettugi. Þetta sáð hefir af sér gefið óþakkláta menn og mun gera það um aldr og ævi. Góðr maðr og vitr kveðst vera albúinn að gera vel til þeirra, er góðs eru maklegir, og þó er honum eigi ókunnugt, hver munr er á eirpeningum og fíkbaunum. Eg mun haga mér svo, að samboðið sé verðleik velgerðamanns míns.

Ef þú vilt eigi, að eg fari neitt burt,, þá verðr þú að láta mig fá aftr hraust brjóst, dökt hár og mjótt enni; þá verðr þú að veita mér aftr sœtt mál og fagrt bros, og að eg angrist af því, að hin keskna Cínara hleypr á braut, meðan á drykkju stendr.

Mjóslegin refkind hafði einhverju sinni skriðið um þröngva smugu inn í kornbyrðu, og er hún hafði etið sig fulla, leitaði hún við að fara út aftr með fullum kviði, enn mátti eigi út komast. Hreysiköttr, er stóð fjarri, mælti þá við refsu: Ef þú vilt komast þaðan, er þú nú ert stödd, verðr þú að fara mögr út um hina þröngu holu, er þú fórst mögr inn um. Ef þessari dœmisögu er beint að mér, þá sleppi eg öllu, og eigi lofa eg svefn alþýðu saddr af alifuglum, og eigi sel eg hið fullfrjálsa næði af hendi fyrir auðœfi Araba. Þú hefir oft lofað hœversku mína og heyrt mig kalla þig konung og föður, og það hefi eg eigi síðr gert í fráveru þinni. Hygg nú að, hvort eg get með glöðu geði skilað því aftr, er þú hefir gefið mér.

Telemachi, syni hins þolgóða Úlixes', fóru eigi illa orð, er hann sagði: 'Íþaka er eigi hestum hent; þar er hvorki víðáttumikið flatlendi né mjög grasgefið. Eg ætla að láta þig, Atrevsson, halda gjöfum þínum. Þær eru þér hagfeldari'. Smátt hœfir smám; mér gezt nú eigi lengr að hinu

konunglega Rómi, heldr að hinu kyrrláta Tíbúri eða hinu friðsamlega Tarenti.

Filippus, er var mikill atkvæðamaðr, og ágætr fyrir málaflutning sinn, gekk einhverju sinni nær áttundu stundu heim frá störfum sínum og kvartaði yfir því, að Kilirnir lægi of langt frá torginu, þvíað hann var þegar hniginn á efra aldr. Er þá mælt, að hann hafi séð mann einn vandlega rakaðan í auðu skeggrakaraskygni; var hann sjálfr að hreinsa neglr sínar í hœgðum sínum með hnífkuta. Demetrius (það var sveinn Filipps, og var sá vanr að leysa erindi hans vel af hendi), farðu, mælti Filippus, og spyr manninn, hvaðan hann sé, hver hann sé, hvernig hagr hans sé, hver faðir hans sé og hver verndari hans, og kom aftr og seg mér, hvað hann segir um það. Sveinninn fer, kemr aftr og segir, að maðrinn heiti Volteius Mena, sé kallari, lifi við lítil efni, sé kunnr að því að hraða sér eða fara sér hœgt eftir atvikum, kunni að afla fjár og njóta, uni sér vel við lítils háttar lagsmenn og víst heimkynni, hafi gaman af sjónleikum, og Marzvellinum, er hann hafi lokið störfum sínum. 'Mig langar til að fá að vita hjá honum sjálfum það sem þú segir mér. Seg honum að koma til náttverðar'. Mena vildi eigi almennilega trúa þessu; hann undraði þetta með sjálfum sér. Enn skjótt að segja: Mena afþakkar. Neitar hann mér? mælti Filippus. 'Já, það gerir hann, furtrinn, og er annað tveggja, að hann fyrirlítr þig eða er hræddr við þig'.

Morguninn eftir kom Filippus til Volteius', þar sem hann var að selja enum kyrtilklædda almúga lítilvægt rusl, og varð Filippus fyrri til að heilsa honum. Volteius tók þá að afsaka sig fyrir Filippi með önnum sínum og leigumannsstörfum, er hann væri við bundinn, svo og fyrir það, að hann hefði eigi heimsótt hann um morguninn, og enn fyrir það, að hann hefði eigi orðið fyrri til að sjá hann. Vit, að eg skal fyrirgefa þér, mælti Filippus, ef þú borðar hjá mér í dag. Sem þú vilt, mælti Volteius. Kom þá eftir níundu stund, mælti Filippus; enn far nú og auk með atorku efni þín. Þá er komið var til náttverðar, óð alt á Volteius, þar til er hann að lokum var látinn heim fara til

svefns. Sást hann nú oft koma þangað, sem fiskr rennr að huldum öngli; hann kom sem skjólstœðingr um morgna og lét sig nú aldrei vanta, þá er matazt var. Og er hin latneska fórnarhátíð var boðuð, var honum boðið að fara með út á búgarð nærri borginni. Er hann nú settr á smáhestakerru og lofar óaflátlega sáðlöndin og loftslagið í Sabafylki. Þetta sér Filippus og brosir að; og af því að hann leitar sér hvaðan æfa gamans og skemtunar, gefr hann Volteiusi sjö þúsundir sextáneyringa og lofar honum öðrum sjö þúsundum að láni og telr hann á að kaupa litla jörð, og gerir Volteius það. Og til þess að eg tefji þig ekki lengr, enn þörf krefr, með mikilli málalengingu, þá er það af Volteiusi að segja, að hann, er áðr var snyrtimaðr, gerist nú sveitalegr og klifar um plógför ein og víngarða, rœktar álma, gengr fram af sér af erfiði og verðr hrumr af auragirnd. Enn er sauðfé hans var stolið og geitfé hans sýktist og dó, kornvöxtrinn brást og naut hans drapst fyrir plóginum, stygðist hann við þenna missi, tók jálk einn í skyndi um miðja nótt og heldr í bræði til húsa Filipps. Jafnskjótt sem Filippus sá hann óhreinan og órakaðan, mælti hann: Mér virðist þú, Volteius, vera of vinnustrangr og búhyggjusamr. Víst mundir þú, verndari minn, mælti Volteius, kalla mig auman, ef þú vildir nefna mig réttu nafni. Því bið eg þig og grátbœni fyrir fœðingarguð þinn og hœgri hönd þína og húsgoð þín; lát mig komast aftr í hina fyrri stöðu mína.

Sá er eitt sinn hefir séð, hve miklu betra það er, er hann hefir slept, enn hitt, er hann hefir eftir sótt, hverfi aftr í tíma og leiti þess af nýju, er hann hefir áðr frá horfið. Það er viðrkvæmilegt, að hver mæli sig með mælikvarða og feti sjálfs síns.

## Áttunda bréf

til

### Celsus' Albinóvans.

Flyt þú, ljóðdís, eins og eg hefi beðið þig, Celsusi Albínóvani, förunauti Nerós og ritara, kveðju mína og hamingjuósk. Ef hann spyr þig, hvað eg hafist að, þá skaltu segja,

að eg hafi margt fagrt fyrir stafni, enn að eg lifi þó hvorki góðu né ánægjusömu lífi, eigi af því, að hagl hafi brotið niðr vínvið minn eða ofrhiti sviðið olíuviðinn, eigi heldr af því, að naut mín sé sjúk á fjàrlægum beitilöndum, heldr af því, að eg sé síðr heill á sálunni enn líkamanum öllum, og vilji ekkert heyra og ekkert nema, það er lina megi sjúkleik minn; að eg styggist við trúa lækna og reiðist vinum mínum, af því að þeir kostgæfa að bægja hinni banvænu svefnsýki frá mér, sœki eftir því, er áðr hefir orðið mér að meini, enn firrist það, er eg ætla að verða muni að liði, og sé svo reikandi, að mig fýsi til Tíbúrs, þá er eg er í Rómi, enn aftr til Róms, þá er eg er í Tíbúri. Því næst skaltu spyrja hann, hvernig honum líði, hvernig hagr hans standi, hvernig hann hagi sér og hversu hann geðjist hinum unga manni og föruneyti hans. Ef hann segir, að alt gangi vel, þá skaltu fyrst muna að láta þér vænt um þykja, og því næst skaltu hvísla ì eyra hans þessum áminningarorðum: Vér munum haga oss svo við þig, Celsus, sem þú hagar þér í hamingju þinni.

## Níunda bréf

til

### Kládíus' Nerós.

Það er auðséð, Kládíus, að Septimíus sér einn, hverjar mætr þú hefir á mér. Þvíað með því að hann biðr mig og leggr mjög fast að mér, og það hvorki um meira né minna enn það, að eg skuli halda sér fram og reyna að koma sér á framfœri við þig, þar sem hann sé samboðinn hugarfari og húsháttum Nerós, er kýs sér það eitt er sœmilegt er, og er hann ætlar, að eg gangi þér í stað allnáins vinar, þá sér hann, hvað eg á undir mér, og þekkir mig betr enn eg sjálfr, Eg hefi reyndar sagt margt mér til undanfœrslu; enn eg hefi verið hræddr um, að menn mundu ætla, að eg gerði of lítið úr mér, og drœgi dulur á eiginn mátt minn, og hugsaði að eins um sjálfs míns hag. Svo hefi eg þá viljað sneiða hjá ámæli fyrir meiri yfirsjón og hefi því látið mér lynda að leita þeirra launa, er borgmannleg djörfung veitir. Ef þú þá lætr þér það vel líka, að eg hefi lagt niðr feimnina sakir áskorunar vinar míns, þá skaltu

taka mann þenna í flokk þinn og ætla hann duganda mann og góðan dreng.

## Tíunda bréf
til
### Aristíus' Fúsks.

Vér, sem unnum sveitinni, heilsum Fúski, er ann borginni. Erum við í þessu einu mjög ólíkir, enn í öðru erum við nálega sem tvíburar með bróðurhug, og hverju því er annar neitar, neitar og hinn, og við kinkum báðir jafnt kolli að því, er öðrum líkar, svo sem gamalkunnug dúfuhjón. Þú gætir hreiðrsins, enn eg lofa lœki hinnar unaðlegu sveitar og hina mosavöxnu kletta og lundana þar. Skjótt að segja, eg lifi sem konungr, þegar er eg hefi skilið við það, er þér lofið og hefjið til himna, og eg hafna sœtabrauði svo sem þrællinn, er strauk frá prestinum; eg þarf hversdagslegs brauðs, og þykir mér það nú betra, enn kökur með hunangskryddi.

Ef svo ber að lifa, sem samkvæmt er eðli manns, og fyrst skal hússtœðis leita: þekkir þú þá nokkurn þann stað, sem fremri er, enn hin sæla sveit? eða er nokkur sá staðr, þar sem vetrinn er hlýjari eða þægilegri vindblær linar œði Hundsins og umbrot Ljónsins, þá er það hefir tekið œrslafult í móti hinni brennandi sól? Er nokkur sá staðr, þar sem meinsöm áhyggja slítr síðr svefn manna? Ilma eða ljóma grösin síðr enn lýbverskir smásteinar? Er það vatn tærara, er rennr um stræti borgarinnar og leitar við að rjúfa blýpípurnar, heldr enn það vatn, er rennr með hraða og þægilegum nið um framhallan lækjarfarveg? Skógr er þó rœktaðr inni á milli mislitra súlna. og það hús er lofað, er víðsýnt er frá á land út. Þótt náttúran sé með lurki á braut rekin, mun hún þó jafnan aftr hverfa og brjótast sigrsæl á laun í gegnum hina óviðrkvæmilegu fyrirlitning.

Sá maðr, er eigi hefir kunnáttu til, að bera þá ull, er drekkr í sig akvínskan litsafa, saman við sídónskan purpuradúk, mun eigi verða fyrir vísara tjóni eða sárara, enn sá, er eigi getr greint ósatt frá sönnu. Þeim manni mun verða

mikið um breyting á hag sínum, er um of hefir glaðzt af meðlætinu. Ef þú dáir eitthvað, muntu sleppa því nauðugr. Forðastu það sem stórfenglegt er. Undir fátœklegu þaki geta menn lifað hamingjusamlegar enn konungar og gœðingar þeirra.

Hjörtr átti baráttu við hest og bar hærra hlut og rak hestinn frá hinu sameiginlega haglendi, þar til er hestrinn, er bar lægra hlut í hinni langvinnu baráttu, leitaði trausts hjá manninum og lét leggja beizli við sig; enn er hann hafði gengið af óvini sínum sigruðum og misþyrmt honum, gat hann eigi kastað reiðmanninum af baki sér né losað beizlið úr munni sér. Svo mun og þeim fara, er af hræðslu við fátœktina leggr frelsið í sölurnar, er hverjum málmi er dýrmætara, að hann mun sökum óráðvendni sinnar bera herra sinn og lifa í eilífri ánauð, af því að hann kann eigi að neyta lítils. Ef hagr manns á eigi við hann, þá fer, sem stundum um skóinn; ef hann er of stór handa fœtinum, þá fellir hann manninn; ef hann er of lítill, kreppir hann að.

Un vel hag þínum, Aristíus, og lif vitrlega, og eigi skalt þú sleppa mér óhegndum, ef þér virðist eg safna meiru, enn nóg er, og aldrei láta af. Það fé, er safnað hefir verið, drottnar yfir manni eða þjónar honum, og er það maklegra, að það sé dregið með snúnum streng, enn að það dragi mann á honum.

Þetta las eg fyrir handa þér á bak við hið hrörlega hof Vakúnu, glaðr að öðru leyti enn því, að þú varst eigi hjá mér.

## Ellefta bréf
til
### Búllats.

Hvernig leizt þér, Búllatíus, á Chíos, á hina alkunnu Lesbos, hvernig á hina snotru Samos, hvernig á Sardís, konungsborg Krösusar, hvernig á Smyrnu og Kólófón; þóttu þér þessar borgir meiri eða minni, enn orð fór af? Þykir þér lítið til alls þessa koma í samanburði við Marzvöllinn og Tíberfljótið? Eða kýs þú þér eina af hinum attölsku borgum? Eða lofar þú Lebedus af leiða á sjóferðum og

landferðum? Þú veizt, hvað Lebedus er, þorp, mannfærra enn Gabsborg og Fídensborg; þó vildi eg lifa *þar*, gleyma mínum vandamönnum og láta þá gleyma mér, og sjá berserksgang Neptúns álengdar af landi. Enn hvorki mun sá, sem fer frá Kapúu til Róms, votr af regni og forugr, vilja ala aldr sinn í veitihúsi; né heldr lofar sá, er innkulsa hefir orðið, ofna og böð, svo sem það, er veiti fullkomlega hamingjusamt líf; og þótt hvass sunnanvindr hafi hrakið þig á hafi úti, muntu eigi selja skip þitt fyrir þá sök fyrir handan Egevshaf.

Ródos og hin fagra Mýtílensborg gerir þeim, er heilbrigðr er á sálunni, sama gagn, sem úlpa gerir um sumarsólstöður og lendadúkr í hríðarveðri, Tíberfljótið í skammdeginu og ofn í Sextílsmánuði. Meðan kostr er og Hamingjan brosir við oss, skulum vér í Rómi lofa Samos og Chíos og Ródos, án þess að fara þangað. Tak þú með þakklátri hendi við hverri hamingjustund, sem guð veitir þér, og frestaðu eigi unaðsemdunum til næsta árs, svo að þú getir sagt, hvar sem þú hefir dvalizt, að þú hafir unað vel hag þínum; þvíað ef skynsemi og hyggni nemr braut áhyggjurnar, enn eigi sá staðr, er gnæfir yfir hið víða haf, þá skifta þeir, er yfir hafið skunda, um loftslag, enn eigi um skaplyndi. Ötult dáðleysi þjáir oss. Vér leitum hamingjusamlegs lífs á skipum og fereykisvögnum. Það sem þú leitar eftir, er *hér*; það er í Úlúbrum, ef þig vantar eigi jafnaðargeð.

## Tólfta bréf
til
### Iccíusar.

Ef þú, Iccíus, neytir réttlega hinna sikileysku ávaxta Agrippu, er þú safnar saman, þá getr Júppíter eigi veitt þér meiri gnótt. Létt harmtölum, þvíað sá er eigi fátœkr, er nœgilegt hefir til neyzlu. Ef magi þinn er heill, brjóst og fœtr, þá munu konungleg auðœfi engu meira fá við bœtt. Ef svo kann að vera, að þú neytir eigi þess, er fyrir höndum er, heldr lifir á jurtum og notrugrasi, munt þú og lifa svo framvegis, þó að hinn tæri lœkr Hamingjunnar gylli

þig þegar í stað, hvort sem það er af því, að féð getr eigi breytt eðli manns, eða af því, að þér þykir alt minna vert enn mannkostirnir einir.

Undrumst vér, að búfé bítr akra og ræktuð lönd Demókríts, meðan hinn skjóti hugr hans er líkamslaus erlendis, þar sem þú innan um svo mikinn óþrifnað og sýking ábatagirndarinnar hyggr að engum smámunum og lætr þér enn ant um það, er háleitt er, það er að segja að vita, hvað það er, er heldr hafinu í skefjum, hvað gangi ársins ræðr, hvort stjörnurnar sveima að vild sinni eða eftir æðra boði, hvað það er, sem felr og myrkvar kringlu tunglsins og hvað leiðir hana aftr í ljós, hvað hið sundrlynda samlyndi allra hluta vill og megnar, hvort Empedókli skjátlast eða hinum glöggskygna Stertíni?

Enn hvort sem þú bryðr fisk, lauk eða tvífil[1], þá vertu Pompeius Grósfi hliðhollr, og ef hann æskir einhvers, þá veit honum það fúslega; enn Grósfus mun einskis beiðast nema þess, er sanngjarnlegt er og viðrkvæmilegt. Það má fá vini með góðu verði, þá er góðir menn þurfa einhvers við.

Til þess að þér sé þó eigi ókunnugt, hvernig hagr Rómverja stendr, þá hafa Kantabrar hnigið fyrir vaskleik Agrippu, enn Armeningar fyrir dugnaði Kládíus' Nerós; Fraates hefir kropið á kné fyrir Cesari og gengið undir lög hans og forræði; hin gullna Gnótt hellir ávöxtum af fullu horni niðr yfir Ítalíu.

## Þrettánda bréf

til

### Víníusar.

Eins og og hefi oftlega og lengi fram við þig tekið, Vínius, nú er þú byrjar ferð þína, þá skaltu því að eins fá Ágústi hinar innsigluðu rollur, ef hann er heill heilsu og glaðr og æskir þeirra, að þér verði eigi á af góðvild við oss, og að þú bakir eigi bæklingum vorum óþokka með

1) Nafnið *tvífill* (þ. *Zwiebel)* er tekið úr Maturtabók Bjarnar Halldórssonar, Kh. 1774, bls. 66.

of mikilli og of ákafri þjónustusemi. Ef pappírsbaggi minn kann að verða svo þungr, að hann meiði þig, þá kasta honum heldr af þér, enn að þú rekir klunnalega klyfsöðulinn í á þeim stað, er þér er boðið að bera byrði þína til, og látir þannig hið föðurlega kenningarnafn þitt, asna, verða að athlœgi og þú sjálfr verðir að umtalsefni. Neyt orku yfir hæðir, vatnsföll og polla, og jafnskjótt sem þú hefir náð takmarki þínu og ert kominn alla leið, skaltu halda þannig á byrðinni, að þú berir eigi bókaböggulinn undir hendi þér, svo sem bóndinn ber lamb sitt, eða svo sem hin vínfreka Pyrría ber stolinn ullvöndul, eða svo sem sveitamaðr, er boðið hefir verið, ber ilskó með hattkúfi sínum, og eigi skalt þú segja mönnum frá því almennt, að þú hafir svitnað undir byrði þeirra kvæða, er skemta megi augum og eyrum Cesars. Þótt menn leggi fast að þér með spurningum, skaltu halda áfram (án þess að svara). Farðu nú heill og vel og vara þig, að þú hnjótir eigi og skemmir það, er þér hefir verið í hendr selt.

## Fjórtánda bréf
til
### bústjóra skáldsins.

Bústjóri, þú sem hefir umsjón yfir skógum mínum og jarðarskika, sem lætr mig koma aftr til sjálfs míns, enn þér þykir þó lítið til koma, þótt þar hafi staðið fimm arnar og vant hafi verið að senda þaðan fimm góða heimilisfeðr til Varíu, við skulum keppast um það, hvort eg ríf þornana úr hug mínum með meira vaskleik, eða þú af landi mínu, og hvort betra sé, Hóraz eða eign hans.

Þótt ættrœkni Lamíu og hrygð hans haldi mér hér aftr, þar sem hann harmar bróður sinn og er óhuggandi af missi hans, ber þó hugr minn og hugsun mig þangað, er þú ert, og fýsist að brjóta lokur þær, er varna mér að komast út á hið auða svæði. Eg segi, að sá sé sæll, er á heima í sveit, enn þú kallar þann sælan, er í borginni býr. Það er auðvitað, að þeim manni er leiðr hagr sjálfs síns, er vel geðjast hagr annars manns. Báðum fer óvitrlega, er þeir með

ósanngirni ásaka staðinn saklausan. Þetta er að kenna sálinni, er aldrei fær flúið sjálfa sig.

Meðan þú varst vikadrengr hér í bœnum, baðst þú þess í þegjanda hljóði, að þú gætir komizt í sveit, enn nú, er þú ert bústjóri, fýsir þig til borgarinnar, sjónleikanna og baðanna; enn um mig veizt þú það, að eg er sjálfum mér samkvæmr og fer hryggr að heiman, hve nær sem leið störf draga mig til Róms. Við dáum eigi hið sama; í því skilr okkr á, þvíað það, er þú telr eyðileg og ógistileg holt, kallar sá unaðlegt, er mér er samdóma og hefir andstygð á því, er þér þykir fagrt. Eg sé, að pútnahús og matsælt veitihús vekja hjá þér söknuð borgarinnar, svo og það, að afkimi sá, er þú ert á, mun fyrr fram leiða pipar og reykelsi enn vínber, og að þar er eigi veitihús nálægt, er geti veitt þér vín, né heldr léttlætiskona, er í hljóðpípu blæs, svo að þú getir hoppað með þunglegum fótaburði eftir þyt hennar, og þó verðr þú þar á ofan að vinna stritvinnu á plóglöndum, er í langan tíma eigi hafa verið jarðhöggvi snortin; svo verðr þú og að hirða uxann, er frá plógi er leystr, og fylla hann á afstroknu laufi; lœkrinn bœtir og, ef regn fellr, á fyrirhöfn letingjans, þvíað honum þarf að kenna með mörgum hleðslum að hlífa hinu sólsæla engi.

Heyr nú, hvað okkr skilr á; mér hafa áðr farið vel smágjörvar skikkjur og gljáanda hár, og þú veizt, að eg geðjaðist gjaflaust hinni fégjörnu Cínöru; mér hefir þótt gott að bera tært Falernsvín að munni mér þegar um miðdegi; enn nú kemr mér bezt stutt borðhald og að sofa í grasinu við lœkinn, og eigi fyrirverð eg mig fyrir að hafa skemt mér, heldr fyrir það, að láta aldrei af skemtuninni. Þar sem þú ert, rýrir enginn hagsmuni mína með öfundarauga, né eitrar þá með huldu hatri og bakbiti; grannar mínir brosa að eins að mér, er eg bisa við hnausa og grjót; enn þú vilt heldr naga dagskamt með þrælum í borginni og œskir ákaflega að komast í tölu þeirra; enn hinn kœni vikapiltr í bœnum öfundar þig af eldiviðnum, er þú hefir, og búfénu og maturtagarðinum. Latr uxi óskar sér að

mega bera reiðtygi, hestr vill draga plóg. Mín tillaga er, að hvor þeirra fremji fúslega þá list, er hann kann.

## Fimtánda bréf

til

### Völu.

Þér ber að rita oss, Vala, enn oss ber að trúa þér til þess, er þú segir um það, hversu vetrarfar er í Velíu og loftslag í Salerni, hvað manna þar byggir og hvílíkr vegrinn er, þvíað Antóníus Músa hefir sýnt mér fram á, að Bæborg er mér óþörf, og þó kemr hann mér út úr húsi hjá bœjarbúum, er eg lauga mig í isköldu vatni um hávetr. Sannlega kvarta þorpsbúar yfir því, að menn skuli hverfa brott frá myrtviðarreitunum og brennusteinsböðunum, er sagt er að reki hinn seiga sjúkdóm úr taugunum; hafa þorpsbúar illan hug á sjúkum mönnum, þeim er hafa áræði til að leggja höfuð sitt og maga undir klúsneskar lindir og leita til Gabsborgar og hinna köldu sveita. Nú verðr að skifta um stað og láta hestinn fara fram hjá hinum alkunnu gistihúsum. Hvert ætlar þú? Leið mín liggr eigi til Kúmborgar eða Bæborgar, mun reiðmaðrinn segja í bræði sinni með því að taka í vinstra tauminn, enn eyra hestsins er í hinum bitlaða munni.

Enn átt þú að rita oss, hvor lýðrinn hefir meira korn sér til viðrværis, hvort menn safna þar regnvatni sér til drykkjar, eða þeir drekka vatn úr brunnum, er aldrei þrýtr vatn í, þvíað um vínið þar á ströndinni hirði eg eigi. Heima hjá mér í sveitinni get eg þolað hvað sem vera vill og unað við það; enn er eg kem til sævar, fýsir mig að fá gott vín og þægilegt, það er reki áhyggjur á braut, er dreifi sér með sælli von um æðar mínar og í hug minn, veiti mér orðgnótt, og komi mér, sem eg væri ungr, í mjúkinn hjá einhverri stúlkunni í Lúkaníu; og enn átt þú að segja mér, í hverju bygðarlaginu sé fleiri hérar, í hvoru fleiri villisvín, í hvoru hafinu fremr dyljist fiskar og íglar, til þess að eg megi þaðan aftr heim hverfa feitr sem Feakingr.

Þá er Meníus hafði gengið vel fram í því, að eyða móðurarfi sínum og föðurleifð og tók að þykja fyndinn og skemt-

inn, fór hann víða um sem œringi og átti hvergi vísan bás að að ganga. Og er hann var svangr, greindi hann eigi samborgarmann frá útlendum manni; hann skirðist eigi við að ljúga alls konar óhróðri á hvern er vera skyldi; hann var tjón og glötun og tortíming mattorgsins og gaf hinum gráðuga maga alt það, er hann fékk hendi á komið; enn er hann fékk alls ekkert eða lítið hjá þeim, er unnu strákskap hans eða vóru hræddir við hann, bar hann sér að munni skálar af ódýrri nautsvömb og lambakjöti, svo mikið að nœgja mátti þremr björnum, og sagði auðvitað um leið eins og hinn vandlætingasami Bestíus, að brenna ætti kviði eyðslumanna með glóandi plötu. Enn er hann fékk einhverja betri bráð og hafði látið hana verða að reyk og ösku, mælti hann: 'Mig furðar að vísu eigi, þótt sumir eti upp eigur sínar, með því að ekkert er betra enn feitr þröstr og ekkert ljúffengara enn stórt grísleg'. Svona fer *eg* auðsjáanlega að, þvíað *eg* lofa það sem víst er, þótt lítið sé, og ber mig allvel, þótt eg eigi við smátt að búa, þá er efnin þrjóta; enn er mér hlotnast eitthvað betra og ríkulegra, segi eg hins vegar, að þér einir séið vitrir og lifið hamingjusamlega, er fé yðvart sést lagt í skrautlega búgarða.

## Sextánda bréf
### til
### Kvintíusar.

Til þess að þú þurfir eigi að spyrja, Kvintíus góðr, hvort jörð mín fœðir eiganda sinn með akrlendi eða auðgar hann með olíuviðarberjum, eða aldini, eða engjum, eða vínviði, er álmi er vafinn, þá ætla eg að lýsa greinilega fyrir þér, hvernig landið er lagað og hvernig það liggr.

Hér væri einlæg fjöll, ef þau greindist eigi af dal einum skuggamiklum, enn þó eigi fremr enn svo, að hin upprennandi sól skín á hœgri hlið dalsins, enn döggvir hina vinstri hlið hans, er hún líðr burt á hraðfleygum vagni. Þér mun mikið um veðrsældina finnast. Hvað mun þér þá verða að orðum, ef þyrnigerði bera örlátlega hjúpur og sláber? eða ef eik og steineik gleðr búféð með miklum ávexti og eigandann með miklum skugga? Þú munt segja, að Tarent

sé komið nær og standi hér í blóma sínum. Hér rennr og lind, svo stór, að lœk má kalla; hún er svo köld og tær, að Hebrá, er um Þrakland rennr, er eigi kaldari og tærari, er hún holl fyrir óstyrkt höfuð, holl fyrir óstyrkvan maga. Þessum fylgsnum, er þægileg eru, og, ef þú vilt trúa mér, jafnvel unaðsamleg, átt þú það að þakka, að eg held heilsu minni í septembermánuði.

Þú lifir, sem vera ber, ef þú leggr stund á að vera sem orð fer af þér. Vér allir hér í Rómi höfum þegar lengi kallað þig sælan; enn eg uggi, að þú trúir einhverjum öðrum betr um þig, enn sjálfum þér, og að þú ætlir, að aðrir sé sælir enn þeir, er spakir eru og góðir; og ef lýðrinn segir, að þú sért hraustr og heilbrigðr, þá reynir þú að dylja hina huldu riðusótt um matmálstíma, þar til er skjálfti kemr á hinar mötugu hendr þínar. Röng blygðun óvitra manna dylr ólæknuð kaun þeirra.

Ef einhver færi að tala við þig um styrjaldir, er háðar hafa verið á sjó og landi, og fiðraði við áhlýðin eyru þín með þessum orðum: 'Júppíter, er elr önn fyrir þér og borginni, láti það vera óvíst, hvort lýðrinn vill heldr velvegnun þína, eða þú lýðsins', þá gætir þú kannazt við lof það, er Ágústus einn á; enn er þú lofar að kalla þig spakan og lýtalausan, tekr þú þá eigi undir, er þú ert því nafni nefndr, seg mér það, góðrinn minn? 'Víst geri eg það, þvíað bæði mér og þér þykir vænt um að vera nefndr góðr og vitr'. Sá er getr veitt þetta í dag, getr tekið það aftr brott á morgun, ef hann vill, svo sem hann mun taka brott vandbundinin, ef hann hefir veitt þau óverðugum manni. Legg þetta niðr, segir hann; eg á það. Eg legg það niðr og geng hryggr á braut. Enn ef hann nú hins vegar kallaði og segði, að eg væri þjófr, og kvæði nei við því, að eg væri skírlífr, og stœði fast á því, að eg hefði hert snöru að hálsi föður míns, mundi eg þá láta ósönn brigzli á mig bíta og bregða lit? Hverjum þykir gaman að ósönnum sóma, og hver skelfist af lognum óhróðri, nema sá, er lastauðugr er og lækningar þurfi? Hver er góðr maðr? Sá er gætir samþykkta feðranna og laga og landsréttar og með dómum sínum sker úr mörgum og miklum þrætum, og er sá maðr,

að fé glatast eigi, er hann gengr í veð, og mál vinnast, þá er hann ber vitni. Enn alt heimilisfólkið hans og allir grannar hans sjá þó, að hann hefir inni fyrir ljótan mann að geyma, þótt hann sé fagr álitum og hafi sjálegan hörundslit.

Ef þræll minn segir við mig: 'Eg hefi eigi stolið og eigi strokið', þá svara eg: 'Þú hefir umbun þína fyrir það, þér svíðr eigi undan svipuhöggunum'. 'Eg hefi eigi mann vegið'. 'Þú skalt eigi fœða hrafna á krossi'. 'Eg er góðr maðr og ráðvandr'. Þá kastar Sabellingrinn höfðinu aftr og neitar því þverlega; þvíað varúðugr úlfr óttast veiðigröfina, haukrinn hinar grunsamlegu snörur og ránfiskrinn hinn hulda öngul. Góðir menn óttast að misgera af ást til dygðarinnar; *þú* munt ekkert ilt að hafast af hræðslu við refsinguna. Enn ef þú hefir von um að dyljast, munt þú saman blanda helgum hlutum og vanhelgum. Þvíað þá er þú stelr einum mæli bauna af þúsund mælum, er skaðinn að vísu minni, enn afbrotið þó eigi minna fyrir það, að minni ætlun. Hve nær sem sá hinn góði maðr, er alt torgið og allr dómpallrinn horfir á, blíðkar guðina með grís eða nauti og hefir mælt hárri röddu: 'faðir Janus og Apolló', bærir hann varirnar að eins, af því að hann er hræddr um að til hans muni heyrast, og segir: 'fagra Laverna, lát mig dyljast, lát mig sýnast réttlátan og ráðvandan, breið nótt yfir syndir mínar og bregð skýi yfir prettu mína'.

Eg sé eigi, í hverju ágjarn maðr er betri eða frjálsari enn þræll, er hann beygir sig niðr á gatnamótum, til þess að taka upp eirpening, er þar sitr fastr; þvíað sá er girnist, mun og við ótta búa, og sá er við ótta lifir, verðr aldrei frjáls að minni hyggju. Sá er gefr sig allan við gróða og sökkvir sér niðr í hann, hann hefir glatað vopnum sínum og fyrirlátið stöð manndygðarinnar. Þá er selja má bandingja, skal eigi drepa hann, hann getr orðið gagnlegr með vinnu sinni; bezt er að láta hann vinna baki brotnu og hirða búfé og erja jörðina, vera í siglingum og kaupferðum á vetrum úti á reginhafi, bœta verð á vistum og flytja að korn og önnur föng. Góðr maðr og vitr mun þora að segja: 'Hvað munt þú, Penþevs, stýrandi Þebuborgar, nauðga mér

til að þola og bera, það er mér sé ósœmilegt?' 'Eg mun taka frá þér eigur þínar'. 'Það er að segja búfé mitt, lausafé, legubekki, silfrgripi. Þú mátt taka það'. 'Eg mun láta harðan gæzlumann varðveita þig og halda þér í handfjötrum og fótfjötrum.' 'Guð mun sjálfr leysa mig, jafnskjótt sem eg vil'. Ætlan hans er, að því er eg hygg: 'Eg skal deyja'; dauðinn er endimark allra hluta.

## Seytjánda bréf

til

### Skevu.

Þótt þú sjáir sjálfr nógsamlega fyrir þér, Skeva, og vitir, hversu byrjar að skifta við sér meiri menn, skaltu þó taka eftir því, er lítilmótlegr vinr, sem enn er námþurfi, ræðr þér, svo sem ef blindr maðr vildi segja til vegar; enn gæt þó að, hvort jafnvel vér mælum nokkuð það, er þú mundir vilja þér í nyt fœra.

Ef þér þykir vænt um að njóta þægilegrar hvíldar og svefns fram að hinni fyrstu stund, og ef þér er eigi um ryk og hjólaskrölt eða veitihús, þá vil eg ráða þér að fara til Ferentíns, þvíað eigi hlotnast gleði auðmönnum einum, og eigi hefir sá illa lifað, er svo hefir fœðzt og dáið, að eigi hefir verið tekið eftir.

Ef þú vilt verða þeim að gagni, er þér eru við hönd, og gera þér sjálfum heldr vel til, þá skalt þú, snauðr maðr, leita til auðmannsins.

'Ef Aristippus gæti felt sig við að borða kálmeti, mundi hann eigi hirða um að vera með konungum'. 'Ef sá er mig lastar, kynni að vera með konungum, mundi hann eigi hirða um kálmeti'. Seg mér, hvors þessara orð og gjörðir þér geðjast, eða heyr, með því að þú ert yngri enn eg, hví skoðun Aristipps er réttari, þvíað mælt er, að hann hafi undið hinn bitrorða Hundingja þannig af sér: 'Eg geri mig að fífli fyrir sjálfan mig, enn þú gerir þig að fífli fyrir lýðnum; þetta er miklu réttara og sœmilegra. Eg sýni þjónustusemi, til þess að hestr beri mig og konungr ali mig; þú biðr um smámuni, og ert þó lítilmótlegri enn sá, er þér gefr, og þykist þó einskis við þurfa'.

Aristippi fóru vel alls konar kjör og sérhver staða og hagr, með því að hann leitaði jafnan hins œðra, enn lét sér þó nœgja það er hann hafði; enn annars vegar mundi mér undarlegt þykja, ef þeim manni, er þolinmœðin hjúpar tvívöfðum kufli, fœri vel að breyta lífsleið sinni. Annar mun eigi bíða eftir purpuraklæðnaði; hinn mun ganga um hina fjölmennustu staði í hverjum klæðnaði er vill, og bera hvorn tveggja búninginn allsnotrlega; hinn mun forðast kápu, er í Míletsborg er ofin, meir enn hund eða höggorm; hann mun deyja af kulda, ef þú fœrir honum eigi kufl hans aftr. Fœr honum hann og lát hann lifa við bjánaskap sinn.

Sá er afreksverk vinnr og getr sýnt sambœjarmönnum sínum hertekna fjandmenn, nálgast hásæti Júppíters, og leitar sér vistar á himnum. Það er og eigi allsmá frægð að hafa geðjazt höfðingjum; enn eigi hlotnast hverjum manni að komast til Korinþar. Sá sat kyrr, er óttaðist, að það tœkist eigi. Látum svo vera. Hefir þeim þá eigi vasklega farið, er komizt hefir alla leið? Hér er það að vísu, eða hvergi, er vér leitum að. Annar óttast byrðina, af því að honum þykir hún ofvaxin lítilli sál sinni og óstyrkum líkama; hinn gengr undir hana og ber hana alla leið. Annaðhvort er dygðin nafnið eitt, eða framkvæmdarsamr maðr leitar sér með réttu sóma og launa.

Þeir sem þegja yfir fátœkt sinni frammi fyrir konungi sínum, munu meira fá, enn sá er krefr; munr er á, hvort menn taka kurteislega við, eða hrifsa til sín. Og þó var þetta það er mestu skifti og mest var undir komið. Sá er segir: ‘Systir mín er heimanfylgjulaus, móðir mín er snauð, jörð mín er hvorki útgengileg né nóg til að fœða mig og skyldulið mitt’, hann segir með hárri rödd: ‘Gefið mér fœðslu’. Annar tekr undir: ‘Gefið mér líka’. Mun þá gjöfinni verða skift og sneiðin verða skorin í sundr. Ef hrafninn gæti neytt fœðu sinnar þegjandi, mundi hann hafa meira mat og miklu minni deilu og öfund.

Sá sem hafðr er til föruneytis til Brúndisborgar eða hins yndislega Súrrents og kvartar yfir því, að vegrinn sé hrjónóttr, kuldinn bitr og regnið mikið, að kúffort sitt hafi verið

upp brotið og ferðapeningum sínum hafi verið stolið, hann hefir upp hin alkunnu brögð vændiskonunnar, er oft grætr það, að hálsfesti hafi verið frá sér stolið, eða fóthring, svo að menn síðar engan trúnað leggja á sannan skaða og sanna sorg hennar; og eigi hirðir sá, er eitt sinn hefir gabbaðr verið, að taka upp fótbrotinn umrenning á gatnamótum, þó að hann gráti fögrum tárum, og sverji við hinn helga Ósíris og segi: 'Trúið mér, eg gabba yðr eigi; takið upp, harðhjartaðir, fótlama mann', þá taka þeir, er búa þar í grend við, undir með hásri rödd: 'Leita þér liðs hjá ókunnugum manni'.

## Átjánda bréf
til
### Lolliusar.

Ef eg þekki þig rétt, þá munt þú, hreinlyndi Lollíus, varast að sýna þig sem smjaðrara, er þú hefir látið vináttubragð á þér sjá. Svo sem heiðvirð kona mun reynast ólík lauslætiskonu að atferli og ásýnd, svo mun vinr vera ólíkr ótryggum smjaðrara.

Til er annar löstr, frábrugðinn þessum lesti og nálega meiri; það er bóndalegr, ófagr og óþægilegr ruddaskapr, er mælir með sér með nauðrökuðu höfði og svörtum tönnum, og vill láta kalla sig óblandið frelsi og sanna manndygð. Dygðin er mitt í milli tveggja lasta og langt frá hvorum tveggja. Annar er hneigðari til eftirlátsemi, enn vera ber, hann sitr á neðsta bekk og hlær þar við hvívetna, og óttast svo bendingar auðmannsins, endrtekr svo orð hans og hendir þau á lofti, að ætla mætti, að piltr væri að skila hörðum kennara leksíu sinni, eða eftirlíkingarmaðr væri að leika aukahlutverk. Hinn rífst oft um geitarull; hann berst hertygjaðr fyrir hégóma. 'Hví skyldi mér eigi helzt vera trúað? og hví skyldi eg í sannleika eigi láta skoðun mína afdráttarlaust í ljós. Mér þœtti lítið til koma, þótt eg fengi til þess annan mannsaldr í laun'. Hvað er það þá, er á greinir um? Hvor betr kunni sína list, Kastor eða Dolichos, eða hvort betra sé að fara Mínucíus' veg eða Appíus' veg til Brundisborgar.

Þá er kostnaðarsöm ást eða ofdirfðarfult tafl féflettir einhvern, eða hégómagirnd klæðir hann eða smyr fram yfir efni hans, eða meinsamlegr silfrþorsti og silfrhungr sœkir einhvern, eða hann skammast fátœktar sinnar og flýr hana, þá fer svo, að auðugr vinr hans, sem oft er tíu sinnum lastauðugri, enn hann sjálfr, hatar og óttast hann, eða, ef hann hatar hann eigi, þá stjórnar hann honum, og vill, sem góð móðir, að hann sé sér vitrari og meiri mannkostum búinn, og mælir þetta, er satt má heita: 'Efni mín þola fávizku mína, hirð eigi að keppa við mig, enn þú ert félítill; nærskorin kápa sœmir hyggnum förunaut, hætt að etja kappi við mig'.

Þá er Evtrapelus vildi gera einhverjum mein, gaf hann honum dýrmæt klæði, 'þvíað sá sem glaðning hefir fengið', hugsaði hann, 'mun taka með fögrum kyrtlum ný ráð og nýjar vonar; hann mun sofa fram á hábjartan dag, meta sœmileg skyldustörf minna enn pútu, gjalda vöxtu af fé annara manna og verða loks þrakverskr skylmingamaðr eða reka jálk kálsölumanns fyrir kaup'.

Graf aldrei eftir leyndarmáli velgjörðamanns þíns, og dyl það, er þér er fyrir trúað, hvort sem vín eða reiði freistar þín; hvorki skalt þú lofa þínar iðnir eða lasta annara, né yrkja kvæði, þá er hann vill fara á veiðar. Þannig rofnaði samlyndi þeirra tvíburanna, Amfíóns og Zeðs, unz gígjan þagnaði, er hinn alvarlegi bróðir hafði illan grun á. Það er ætlan manna, að Amfíón hafi látið undan lundarlagi bróður síns. Lát þú því undan þýðum boðum voldugs vinar, og rís upp, hve nær sem hann fer út fyrir borgina með eyki sína og etólsk net á og hefir með sér hunda sína, og legg niðr ellibrag hinnar ómannblendnu ljóðdísar, svo að þú megir sameiginlega með honum neyta kjötmetis, er aflað hefir verið með sameiginlegri fyrirhöfn. Þessi iðja tíðkast mjög hjá Rómverjum, er góð til afspurnar og nytsamleg lífi og limum, og einkum ber þér að stunda hana, þar sem þú ert heilsugóðr og getr bæði sigrað hund á hlaupi og villisvín að afli. Enn er það, að enginn fer prýðilegar með karlmannleg vopn enn þú, og þér er kunnugt, hversu góðan róm mannhringrinn gerir að þér, þá er þú skylmist

á Marzvelli, og loks er þess getanda, að meðan þú varst á ungum aldri, þoldir þú harðan hernað í styrjöldinni við Kantabra undir forustu þess manns, er nú tekr merki niðr úr hofum Parþa, og leggr það undir ítölsk vopn, er enn vantar, ef nokkuð er. Og til þess að þú dragir þig eigi í hlé og sért eigi burtu frá veiðunum afsökunarlaust, þá tek eg það fram, að þú ert stundum að leika þér á búgarði föður þíns, þó að þú kostgæfir að breyta í engu út af því, er vel fer og vera ber. Herinn skiftir bátunum með sér; þrælar endrnýja bardagann við Aktíum undir forustu þinni, og berjast sem fjandmenn eigist við; mótstöðumaðr þinn er bróðir þinn, tjörnin er Adríahafið, og eigi er fyrr hætt, enn hin hraðfleyga sigrgyðja leggr laufgjörð um höfuð annars hvors. Sá sem ætlar, að þú sért honum samhuga í ástundunum hans, mun verða þér hliðhollr og lofa leik þinn með báðum þumalfingrum sínum.

Að eg áminni þig enn fremr, ef þú þarft nokkurrar áminningar við, þá gef oftlega gætr að því, hvað þú segir um hvern, og hverjum þú segir það. Varastu spurulan mann, þvíað sá hinn sami er málugr, og eigi geyma forvitin eyru það trúlega, er þeim er fyrir trúað, og orð það, er eitt sinn hefir slept verið, verðr eigi aftr kallað. Lát enga þernu, né neinn svein særa hjarta þitt fyrir innan marmaraþröskuld virðulegs vinar þíns, til þess að húsbóndi hins fagra sveins eða hinnar kæru meyjar gœði þig eigi með þessari lítilsverðu gjöf, eða angri þig með meinsemi sinni.

Gæt vandlega að því, hvílíkr sá er, er þú mælir með, til þess að þú þurfir eigi síðan að bera kinnroða fyrir afgerðir annara. Vér erum á tálar dregnir og leitum stundum við að koma ómaklegum á framfœri; hætt því, er þú hvekkist, að vernda þann, er misgerð sjálfs hans kreppir að, til þess að þú getir borgið þeim, er þér er gagnkunnugr, ef sakir eru á hann bornar, og fáir varðveitt hann, þar sem hann treystir vernd þinni; þvíað þá er hann er nagaðr af Teónstönn, verðr þú þá eigi eitthvað var við þann háska, er bráðum mun að þér koma? Þvíað þá eru eigur þínar í

veði, er hinn næsti veggr brennr, og húsbrunar eru vanir að magnast, ef þeim er eigi viðsjá veitt.

Óreyndum er þægilegt að þjóna voldugum vini; sá er reynt hefir, óttast það. Gæt þess, meðan skip þitt er á hafi úti, að vindrinn beri þig eigi aftr, ef hann breytist. Alvarlegir menn hafa óbeit á glaðlyndum manni, gamansamir á alvarlegum, fljótráðir á hœgfœrum, tómlátir á þeim, sem iðjusamr er og atorkusamr; þeir, er gott þykir að drekka falernskt vín um miðjar nætr, leggja fæð á þig, er þú drepr hendi við staupum, þeim er að þér eru rétt, og það þótt þú vinnir eið að því, að þú sért hræddr við vínvelgju um nætr. Nem skýið burt af augnabrúnum þínum, þvíað oftast verðr óframfœrinn maðr talinn undirhyggjusamr og þegjandalegr maðr aðfinningasamr.

Hvernig sem á stendr, skalt þú lesa rit fróðra manna og spyrja þá, hvernig þú getir lifað kyrrlátu lífi; hvort girndin, er jafnan er þurfandi, hrekr þig og hrjáir, eða ótti og von þeirra hluta, er meðallagi eru þarfir; hvort það er fróðleikr, er mannkosti veitir, eða náttúran gerir það; hvað það er, er áhyggjur minnkar og kemr þér aftr í vingan við sjálfan þig; hvað það er, er veitir þér sanna ró, hvort það er mannvirðing og þægilegr ávinningr, eða afvikin leið og stígr þeirrar ævi, er lítið ber á.

Hver tilfinning ætlar þú, vinr, að búi mér í brjósti, og hvers hyggr þú að eg beiðist, í hvert sinn sem eg fæ hressing af hinum svala lœk Dígenzíu, er þorpið Mandela drekkr af, er hrukkótt er af kulda? Eg bið þess, að eg megi hafa það, er eg nú hefi, og jafnvel þótt minna væri, og að eg megi lifa mér, það er eftir er ævinnar, ef guðirnir vilja láta það nokkuð vera; að eg megi hafa góðan bókakost og nœgilegar vistabirgðir árlangt, og að eg þurfi eigi að vera á reiki, bundinn við von efasamrar stundar; enn nóg er að biðja Júppíter þess, er hann gefr og tekr aftr: Gefi hann mér líf, gefi hann mér efni; eg mun sjálfr afla mér jafnaðargeðs.

# Nitjánda bréf
til
## Mecenasar.

Ef þú, bókfróði Mecenas, leggr trúnað á orð gamla Kratíns, þá geta engi kvæði lengi líkað, né lengi við haldizt, þau er vatndrekkar semja. Síðan er Líber tók hin vitlausu skáld í flokk Satýra og Fána, hefir venjulega vínþefr verið af hinum yndislegu ljóðdísum þegar um morgna. Með því að Hómer lofar vín, verðr hann sannr að vínfýsi. Jafnvel faðir Ennius óð aldrei fram til að kveða um vopn, nema hann væri víndrukkinn. 'Þurrbrjósta mönnum mun eg torgið í hendr selja, og brunnumgjörð Líbóns, og banna siðvendismönnum að kveða'. Jafnskjótt sem eg birti þetta boð, léttu skáldin eigi að drekka óblandið vín hvert í kapp við annað um nætr og ganga með vínþef um daga. Þó að nú einhver líkti eftir Kató með hörðu og ófrýnilegu yfirbragði, og með nöktum fótum og þröngofinni kápu, hvort mundi hann fyrir það líkja eftir mannkostum hans og siðum? Íarbíta sprakk, er hann kepti í mælsku við Tímagenes og vildi láta telja sig með orðkringum málsnildarmönnum. Það dœmi leiðir afvega, er hefir þá galla við sig, er eftir verðr líkt. Ef svo bærist að, að eg fölnaði, mundu eftirhermendr drekka blóðeyðanda kúmen. Ó þér eftirlíkjendr, þrællynd kvikindi, hversu oft hafið þér með ofgangi yðrum gert mér gramt í geði og hversu oft vakið kæti í brjósti mér. Eg hefi fyrstr manna fetað frjálslega um autt svæði og eigi drepið fœti mínum á annara eign. Sá er traust ber til sjálfs síns, mun vera fremstr í hópnum og stýra honum. Eg hefi fyrstr sýnt Latlandi pareyskar hraðhendur og fylgt bragháttum og anda Archilochs, enn þó eigi efni hans og þeim orðum, er meiddu Lykambes. Og til þess að þú skreytir mig eigi fyrir þá sök með minni háttar laufgjörð, að eg hefi eigi árætt að breyta bragháttum Archilochs og bragsniði, þá segi eg þér það, að hin karlmannlega Sapfó stillir hörpu sína eftir braglið Archilochs; Alceus gerir það og, enn er þó frábrugðinn Archiloch að

efni og skipun, og eigi leitar hann sér tengdaföður, er hann fái atað með eitruðum ljóðum, og eigi fléttar hann heitmeyju sinni snöru með níðkvæði. Þenna mann, er enginn annar munnr hefir áðr eftir kveðið, hefi eg gert þjóðkunnan með latneskri fiðlu. Eg hefi ánœgju af því að koma fram með eitthvað nýtt, og vera lesinn göfgum augum og vera í göfugra manna höndum. Ef menn vilja vita, hví hinn óþakkláti lesari lofar kviðlinga mína heima hjá sér og ann þeim, enn niðrar þeim með ósanngirni utan húss, þá ber það til þess, að eg leita eigi við að ná atkvæðum hins hverflynda múgs með því að kosta boð handa honum og gefa honum slitin föt. Eg, sem er áheyrandi og hefnandi ágætra skálda, get eigi af mér fengið, að ganga um meðal sveita ritskýranda, og að tölustólum þeirra. Af því er þetta mitt böl sprottið. Ef eg segi: 'kviðlingar mínir eru óboðlegir fjölmennu samkvæmi og eg fyrirverð mig að lesa þá þar og gera mikið úr hégóma', þá segja menn: 'þú ert að gera að gamni þínu og geymir þetta eyrum Júppíters, þvíað þú ert fagr í sjálfs þíns augum, og treystir því, að skáldahunang drjúpi af þér einum'. Eg þori eigi að kippa mér upp við þetta, og til þess að mótstöðumaðr minn rispi mig eigi með hvassri nögl, kalla eg: 'Þessi staðr hugnar mér eigi', og eg bið um leikfrest, þvíað leikr hefir oft af sér getið ákafa deilu og reiði, enn reiðin grimmlegan fjandskap og mannskœða styrjöld.

## Tuttugasta bréf
til
### bókar skáldsins.

Svo sýnist, bœklingr, sem þú sért farinn að renna augum til þeirra Vertúmns og Jans, og er auðvitað, að það er til þess, að fægisteinn þeirra Sósía fegri þig og þú sért á boðstólum. Þú hatar lása og innsigli, er feimnum eru geðþekk; þú andvarpar af því, að þú ert fáum sýndr, og lofar margmennið, og hefir þó eigi verið þannig upp alinn. Flýttu þér þá þangað er þig fýsir. Þú munt eigi eiga aftrkvæmt, er þér hefir eitt sinn slept verið. 'Hvað hefi eg gert, auminginn, hvað vildi eg hingað', muntu segja, þegar

einhver gerir þér mein. Þú veizt og, að þú verðr saman vafinn í hnypr, þá er unnandi þinn hefir nóg af þér fengið, og er farinn að láta sér hœgt um þig. Ef mér spámanninum skjátlast eigi af óþokka til þín syndarans, þá munt þú verða vel þokkaðr í Rómi, unz œskan hverfr frá þér; enn er múgrinn hefir þig höndum farið og þú tekr að saurgast, þá munt þú verða orðfár og annaðhvort fœða hina duglausu mölu, eða strjúka til Útíku, eða verða sendr bundinn til Ílerdu. Mun þá áminnandi þinn brosa, er orðum hans hefir eigi hlýtt verið, og mun honum fara sem þeim manni, er í bræði hratt asna niðr í gljúfr; þvíað hver mun hirða um að bjarga þeim, er eigi vill láta bjarga sér? Það á og fyrir þér að liggja, að hin stama elli komi yfir þig í hinum yztu borgarstrætum, er þú kennir þar börnum frumfrœði; enn er dregr úr sólarhita og þú fær fleiri áheyrendr, þá skaltu segja, að faðir minn hafi frelsingi verið og átt við lítil efni að búa, enn að eg hafi meira fjaðrmagn fengið, enn efni stóðu til, og fœrt mig út úr hreiðri mínu, og mátt þú þannig auka jafnmiklu við mannkosti mína, sem þú tekr af ættgöfgi minni; seg, að eg hafi geðjazt hinum helztu mönnum borgarinnar bæði í hernaði og heima; að eg hafi verið lítill vexti, hafi hærzt snemma, sólarhitinn hafi vel við mig átt, að eg hafi verið fljótr til reiði, enn þó sáttgjarn. Ef einhver kann að spyrja þig um aldr minn, þá viti hann, að eg hafði fylt ferna ellefu decembermánaði, þá er Lollíus fékk Lepídus fyrir embættisbróður.

# Önnur bók.

## Fyrsta bréf

til

## Ágústs.

Með því að þú einn hefir svo mörg og mikil störf á hendi, varðveitir hið ítalska ríki með vopnum, prýðir það með siðgœði, bœtir það með lögum, þá mundi eg, Cesar, brjóta í mót almennings hag, ef eg tefði fyrir þér tímann með löngu hjali.

Rómúlus og faðir Líber, Pollúx og Kastor, vóru teknir í hof guðanna eftir hin miklu ágætisverk, er þeir unnu; enn meðan þeir bœttu heimsbygðina og siðu mannfólksins, og settu niðr hörð stríð, úthlutuðu lönd og reistu borgir, urðu þeir þó að kvarta yfir því, að ástsæld sú, er þeir gerðu sér von um, væri eigi samboðin verðleikum þeirra. Hann, er vann á enum illa vatnsnaðri og yfirsté hin alkunnu skrímsl með þrautum, þeim er honum vóru áskapaðar, komst að raun um, að öfundin þver eigi fyrr enn við enda lífdaganna. Þvíað sá meiðir aðra með ljóma sínum, er drepr niðr listum þeim, er liggja honum lægra; enn er hann er látinn, munu menn unna honum; enn *þér* veitum vér sœmdir í tíma, meðan þú ert hjá oss, og reisum stalla, þar er eiða skal sverja við þitt nafn, og játum, að eigi muni nokkuru sinni neitt slíkt fœðast, sem þú ert, og að eigi hafi neitt slíkt fœðzt.

Enn þessi þinn lýðr, er vitr er og réttvís í því að taka þig einn fram yfir höfðingja vora og höfðingja Grikkja, metr annað alls eigi á líkan hátt eða líka lund, og drepr hendi við og hefir óbeit á öllu, nema því er fjarlægzt hefir jörðina og lokið tilveru sinni, og ann svo því er fornt er, að hann segir, að frœðigyðjurnar hafi lesið fyrir á Ölbufjalli spjöld þau er misgerðir banna og tímenningar leiddu í lög, svo og sátt-

mál konunganna, þau er gerð vóru annaðhvort við Gabsborg, eða við hina siðvöndu Sabverja; enn fremr bœkr höfuðpresta og hinar fornu spámannabœkr.

Ef rómversk skáld eru vegin á hina sömu vog, sem hin grísku, sakir þess að kvæði Grikkja eru því betri, sem þau eru eldri, þá þurfum vér eigi að vera fjölorðir. Þá er enginn kjarni í olíuviðarberinu, og engin skurn á hnotinni; vér erum komnir á hæsta stig hamingjunnar; vér gerum litmyndir, leikum á hljóðfœri og glímum með meiri kunnáttu, enn hinir smurðu Achverjar.

Ef tímalengdin bœtir kvæðin, sem hún bœtir vínið, þá þœtti mér gaman að vita, hversu mörg ár þarf til þess, að kvæði fái fult verð. Á að telja það skáld, er dáið er fyrir hundrað árum, meðal fullkominna skálda eða meðal hinna lítilvægu og nýju? Látum eitthvert endimark út byggja allri þrætu. 'Sá er gamall og góðr, er fyllir hundrað ár'. Enn meðal hverra skal þann telja, er einum mánuði eða ári er fátt í hundrað ár, síðan hann dó? Á að telja hann meðal fornra skálda, eða þeirra, er nútíð og framtíð hafnar? 'Þann má að vísu með sóma setja meðal hinna fornu skálda, sem annaðhvort vantar skamman mánuð, eða jafnvel heilt ár'. Eg neyti þessa jákvæðis, og reyti smámsaman hár, svo sem úr hrosstagli, og tek eitt hár og enn eitt, þar til sá fellr á bragði hinnar hrynjandi kornhrúgu, er til árbókanna leitar, metr kosti manna eftir áratölu, og dáir ekkert nema það, er Graftardís hefir helgað.

Ennius, sem bæði er vitr og kröftugr, og annar Hómer að ætlun listdómara, virðist hirða lítið um, hvað úr heitum hans verðr og hinum pýþagórsku draumum. Hafa menn eigi Nevíus handa í milli og er hann eigi mönnum hugfastr, nálega sem hann væri nýr? Svo heilagt er hvert fornt kvæði. Hve nær sem á greinir um, hvort skáldið sé öðru betra, gengr Pakúvíus burt með það orð á sér, að hann sé fróðr öldungr; enn Accíus er lofaðr fyrir háfleygi sitt. Sagt er, að hin rómverska kápa Afrans hafi farið Menandri vel, og að Plátus sé fljótvirkr að dœmi Epíkarms hins sikileyska, að Cecilíus sé aflmeiri enn Terenzíus; enn Terenzíus hafi meiri kunnáttu. Þessi skáld lærir hin volduga Róma-

borg utan bókar, og lýðrinn horfir á þau, þéttskipaðr í þröngu sjónhúsi; þetta eru þeir menn, er hún hyggr skáld vera og telr með skáldum frá dögum skáldsins Livíusar fram á vora daga.

Stundum sér alþýða manna hið rétta, enn stundum missýnist henni. Ef hún undrar svo hin fornu skáld og lofar þau svo, að hún tekr ekkert fram yfir þau og ekkert til jafns við þau, þá missýnist henni; enn ef hún ætlar, að sumt sé of fornlegt hjá þeim, enn flest óþýtt, og ef hún játar, að margt sé kraftlítið hjá þeim, þá fer henni bæði vitrlega og hún er mér samdóma og dœmir skynsamlega.

Eg ofsœki að vísu eigi kvæði Livíusar, né ætla rétt vera að ónýta þau, þessi kvæði, sem eg man að hinn högg-gjarni Orbilíus las mér ungum fyrir; enn eg undrast, að þau skuli þykja gallalaus og fögr og nálega algjör. Og ef einhverju fögru orði kann að bregða fyrir í þeim og ef eitthvert vísuorð kann að vera í laglegra lagi, þá dregr það ranglega alt kvæðið með sér og útvegar því kaupendr. Mér sárnar, að fundið skuli vera að nokkru, eigi af því, að það þyki ósnotrlega og óliðlega saman sett, heldr af því, að það er nýsamið, og að menn skuli eigi beiðast vorkunnar við hið forna, heldr krefja virðingar og launa því til handa. Ef eg efaði, hvort leiksaga Öttu gengi með réttu yfir safranvökvann og blómin eða eigi, þá mundu nálega allir feðr kalla og segja, að öll sómatilfinning væri horfin, er eg dirfðist að lasta það, er hinn alvarlegi Esópus og hinn leikkœni Róscíus hafa leikið, hvort sem það kemr af því, að þeir telja ekkert rétt nema það, sem þeim hefir sjálfum þokknazt, eða af því, að þeim þykir ósómi að fara að dómi yngri manna og játa í elli sinni, að þeir eigi að hafna því, er þeir námu, áðr enn þeim var grön sprottin. Sá er jafnvel hœlir Marzprestakvæði Númu, og vill svo þykja láta, sem hann beri skynbragð á það, er hann er jafnfáfróðr um sem eg, hann ann eigi framliðnum vitringum og klappar eigi lof í lófa fyrir þeim, heldr beinist hann að því, er *vér* gerum, og hatast af öfund við *oss* og kvæði vor.

Hefði Grikkjum verið nýbreytnin svo leið sem oss, hvað væri þá fornt nú? eða hvað hefði almenningr, er bœkr notar,

þá til að lesa og láta ganga til slits manna í milli? Þegar er Grikkland létti styrjöldum og tók að skemta sér og lét leiðast af hamingjunni til léttúðar, lögðu menn þar ýmist mikinn hug á að horfa á kappleiksmenn eða kappekju, eða þeir höfðu mætr á marmarasmíði eða fílbeinssmíði og eirsmíði, eða sneru hug sínum og augum að litmyndum; enn stundum skemtu menn sér við pípnablásendr og harmljóðaleikendr; var það eins og barnung mær léki sér hjá fóstru sinni, að það varð skjótt leitt á því, er það hafði kappsamlega eftir sótt, og hvarf aftr frá því. Hvað er það, er mönnum þokknast eða þeir hafa óbeit á, er eigi megi breytilegt þykja? Þetta hefir hin góða friðsæld og hagsæld haft í för með sér.

Í Rómi þótti lengi þægilegt og var alsiða, að ljúka snemma upp húsi sínu og vera árla á ferli; skýra lög fyrir skjólstœðingum sínum, lána út fé, sem trygt væri með undirskriftum áreiðanlegra manna; fá að heyra hjá hinum eldri mönnum, enn tjá fyrir hinum yngri, með hverju efni manna gæti aukizt, enn útdráttarsöm munaðarfýsn minnkað. Sá hinn hviklyndi lýðr hefir tekið skapskifti og hefir nú hugann að eins á ritsmíði; ungir sveinar og ráðsettir öldungar sitja að matborðum með laufgjörð um hár sitt og flytja kvæði. Eg sjálfr, er fullyrði, að eg semji engin ljóð, reynist lausmálari enn Parþar; eg vakna fyrir sólar upprás og heimta penna, bréf og bókakistil. Sá þorir eigi skipi að stýra, er eigi kann að skipstjórn, og eigi áræðir nokkur að gefa sjúkum manni stafrót[1], nema sá er numið hefir. Læknar hafa það með höndum, er læknum heyrir, smiðir smíði, enn vér yrkjum án greinarmunar, hvort sem vér kunnum til þess eða eigi.

Þó má sjá af því, er nú skal greina, hversu miklir kostir fylgja þessari missýningu og þessu lítilvægilega vanviti: Skáld eru sjaldan fégjörn; þau hafa yndi af skáldskap, og stunda hann einn; þau brosa að fjármissi, brotthlaupi þræla og húsbruna; þau hugsa eigi upp neina vél við félaga sína eða fjárvörzlusveina; þau lifa á belgjarávöxtum og lélegu

1) Þetta orð er myndað eftir hinu þýzka orði *stabwurz.*

brauði; og þó að þau sé tómlát og duglítil í hernaði, eru þau þó ríkinu nytsamleg, ef menn játa, að jafnvel hið smáa styðji það sem stórt er. Skáldið lagar veika og stama rödd barnsins og snýr eyra þess þegar á unga aldri frá sauruglegu hjali; síðan lagar það og hjarta barnsins með vinsamlegum kenningum, heftir harðlyndi þess, öfund og bráðlyndi; það segir frá því, er rétt er gert, og frœðir hina upprennandi kynslóð með kunnum dœmum, og huggar hjálparlausan mann og hugsjúkan. Hvaðan ætti hin ógifta unga mær og hinir skírlífu sveinar að nema bœnir sínar, ef ljóðdísin hefði eigi veitt oss skáldið? Söngskarinn beiðist fulltings og kennir návistar goðanna, hann biðr blíðmáll um regn af himni með bœn, er honum hefir kend verið; afstýrir sjúkdómum og rekr brott œgilegar hættur; hann útvegar mönnum frið og ávaxtsamt ár. Uppheimsguðirnir blíðkast við kvæði og sömuleiðis undirheimsguðirnir.

Hinir fornu, styrkvu og nœgjusömu akrmenn tóku sér hvíldardaga, er þeir höfðu hirt korn sitt, og léttu sér upp og hrestu sál sína, er hart hafði þolað í von um góðan enda, og friðþægðu með verknautum sínum, börnum og tryggri eiginkonu, Fold með grís, Skógvald með mjólk, æviguðinn, er man fæð lífdaganna, með blómum og víni. Af þessum sið spratt fescenska sjálfræðið. Menn kváðust á og hreyttu bœndalegum hnýfilyrðum hver til annars. Þetta frelsi, er varð að venju, með því að það var endrtekið ár eftir ár, gamnaði sér ástúðlega, þar til gamanið tók að grána og breytast í opinbert œði, og fór ógnanda að ósekju um heiðvirð hús. Þeir kendu sárleiks, er meiddust af hinni blóðgu tönn; enn þeir, er eigi var á leitað, vóru og áhyggjufullir um sameiginlegan hag, sinn og annara, og nýmæli var jafnvel gert og refsing við lögð, er bannaði, að nokkur væri mannskemdr með illum kveðskap. Menn breyttu nú háttum sínum af hræðslu við bareflið, og tóku að vanda orð sín og skemta.

Þá er Grikkland var unnið, sigraðist það á hinum kunnáttulausa sigrvegara og flutti fagrar listir inn í hið sveitalega Latland. Þannig hvarf hinn ruddalegi bragháttr Satúrns, og snotrleikr rak leiðan óþverra brott; enn um langa

ævi héldust þó menjar sveitabragsins, og haldast enn í dag, þvíað seint tóku Rómverjar að beina glöggskygni sinni að grískum ritum, og eigi var það fyrr enn eftir styrjaldirnar við Púnverja, að þeir fengi næði til að rannsaka, hvað nytsamlegt þeir Sófókles, Þespis og Eskýlus hefði að bjóða. Þeir reyndu og, hvort þeir gæti snúið kvæðum þessara manna, svo að vel fœri; þeim líkaði við sjálfa sig, þvíað þeir eru háfleygir og glöggskygnir eftir eðli sínu; enda hafa þeir nógan harmleiksanda og eru heppnir í tilraunum sínum; enn í því fer þeim ókunnáttulega, að þeim þykir óvirðing að draga út hjá sér, og þeir forðast það.

Það er ætlan manna, að gamanleiksljóð sé mjög fyrirhafnarlítil, af því að þau taka efni sitt úr hversdaglegu lífi; enn þau eru því fyrirhafnarmeiri, sem menn eru óvorkunnlátari við þau. Hygg að, hversu Plátus gætir hlutverks elskanda œskumanns, eða aðsjáls föður eða sviksams portkvennamanns, hversu mikill Dossennus hann er, þá er hann lýsir hinum átfreku síkjugestum, og hve laus lágskórinn er á honum, er hann rennr yfir leikpallinn, þvíað hann hefir allan hugann á að stinga peningunum í pyngju sína, og lætr sig síðan engu skifta, hvort leiksaga hans fellr eða stendr réttum fœti.

Þá er veggirni ber einhvern á vindlegum vagni til leiksviðsins, þá hryggir deyfð áhorfandanna hann, enn áhugi þeirra hreykir honum upp. Svo lítilvægt og smálegt er það, er beygir hug lofgjarns manns eða endrhressir hann. Fari sjónleikar í friði, ef synjun pálmgreinarinnar megrar mig, enn veiting hennar leiðir mig feitan heim aftr.

Það fælir og oft burt jafnvel áræðið skáld og skelfir það, að meðan flutningr leikkvæðanna stendr sem hæst, heimta menn björn eða hnefleiksmenn, þvíað hinn lítilmótlegi almúgi hefir gaman af slíku, og eru þeir, er þessa krefja, fleiri að höfðatölunni, enn minni að mannkostum og virðingu, ófróðir og óvitrir, og búnir til bardaga, ef riddararnir eru þeim eigi samþykkir. Enn jafnvel hjá riddurunum hefir öll skemtunin flutzt frá eyranu til hinna óstöðugu augna og hégómlegrar kæti. Fortjöldin eru látin niðri liggja fjórar stundir eða lengr, meðan riddaraflokkar og fótgöngumanna

sveitir flýja. Síðan eru ólánsamir konungar fram dregnir með bakbundnar hendr; léttikerrur bruna fram, kvenkerrur, fjórhjólungar og skip, og enn fremr er fram flutt hertekið fílsbein og hin hertekna Korinþ.

Ef Demókrítus væri nú á jarðríki, mundi hann hlæja, ef annaðhvort kynblendingr enna ólíku dýra, panþers og úlfalda, eða hvítr fíll drœgi að sér athygli múgsins; hann mundi horfa á lýðinn með meiri athygli enn á leikana sjálfa, með því að honum mundi þykja hann veita sér fleira til augnagamans, enn eftirlíkingarmaðrinn, og ætla, að skáldin væri að segja asna smásögu, því að hverjar eru þær raddir, er megnað hafa að taka yfir nið þann er endrkveðr í leikhúsum vorum? Ætla mætti, að Garganssskógr eða Túskhaf dyndi; svo er harkið mikið, er menn horfa á leikana, og listasmíðin og hin útlendu auðœfi, og er leikandinn hefir staðar numið á leiksviðinu, dubbaðr slíkum skrúða, skellr hin hœgri hönd við hina vinstri. 'Hefir hann enn sagt nokkuð?' Nei, að vísu ekkert'. 'Hvað er það þá, er mönnum líkar svo vel?' 'Það er ull, er fengið hefir fjólulit í tarenzkum litsafa'.

Og til þess, að þú ætlir eigi, að eg sé illgjarnlega spar á að lofa það, er eg fœrist sjálfr undan að gera, enn aðrir gera vel, þá segi eg þér það, að mér þykir, sem það skáld gangi eftir þöndum streng, er með blekking angrar hjarta mitt, reitir það og kyrrir, og fyllir það með hugarburðarótta, sem töframaðr væri, og setr mig ýmist í Þebu eða Aþenu.

Enn gott og vel, veit þeim og nokkura athygli, er heldr vilja trúa lesaranum fyrir sér, enn þola vandfýsni drembilegs áhorfanda, ef þú vilt með bókum fylla það hús, er þú hefir gefið Apolló og honum sœmir vel, og hvetja skáldin til að leita með meira kappi til hins grœna Helíkóns.

Til þess að eg nú komi við mín eigin kaun, þá gerum vér skáldin oft sjálfum oss margt til meins, er vér seljum þér hugsjúkum eða þreyttum bók í hendr, og vér styggjumst af því, að einhver af vinum vorum hefir dirfzt að finna að *einu* vísuorði hjá oss, og lesum ótilkvaddir upp aftr það sem vér höfum áðr upp lesið, eða þá er vér kvörtum yfir því, að eigi sé gefinn gaumr að fyrirhöfn vorri og hinum smátt spunnu kvæðum vorum; eða vonum, að svo muni

fara, að jafnskjótt sem þú verðr þess vís, að vér erum að yrkja kvæði, þá gerir þú oss ljúfmannlega orð að fyrra bragði, að koma til þín, og bannir oss að búa við skort og þröngvir oss til að yrkja.

Enn þó er tilvinnanda að kynna sér, hvílíka hofvörðu mannkostirnir hafa, þeir er reyndir eru í herskap og heimastörfum og eigi má ómaklegu skáldi á hendi fela. Körílus var kær hinum mikla konungi Alexander, og átti hann það að þakka ósnotrum ljóðum og illa ortum, að hann hlaut hina konunglegu mynt, Filippingana; enn svo sem merki og flekkr kemr af bleki, er með það er farið, svo ata skáld venjulega fögr stórvirki með leirburði sínum. Sá hinn sami konungr, er var svo óspar á fé, að hann gaf svo mikið fyrir svo hlœgilegt kvæði, lét það bann út ganga, að enginn skyldi litmynda sig, nema Apelles, og enginn annar, enn Lýsippus, gera eirmynd eftir andlitslagi hins vaska Alexanders. Ef þessi maðr, er var svo glöggskygn í skoðun listasmíða, væri látinn dœma um bœkr og um þessar gjafir ljóðdísanna, þá mundu menn sverja, að hann væri fœddr í hinu þykkva lofti Bööta; enn skáldin Vergilíus og Varíus, sem þér eru kærir, vansœma eigi dóma þína um sig, eða þær gjafir, er þeir hafa fengið og gjafarinn hefir hlotið mikið lof fyrir; og eigi sést andlitsfall ágætra manna glöggvara á eirmyndum, enn lundarlag þeirra og hugarfar kemr í ljós í verki skáldsins; og eigi mundi eg heldr kjósa að semja hversdagleg ljóð, er með jörðu skríða, enn að kveða um afreksverk, leg landa og ár, virki þau er reist hafa verið á fjöllum uppi, útlend konunga ríki og styrjaldir, þær er hafa verið til lykta leiddar um allan heim undir forustu þinni, um lokur, þær er inni halda friðarverðinum Jani, og um Róm, er Pörþum stendr ógn af undir forræði þínu, — um þetta mundi eg kveða, ef máttr minn samsvaraði vilja mínum, enn tign þín þekkist eigi lítilsvert kvæði, enda þori eg eigi sakir ófremi minnar að freista nokkurs, þess er kraftar mínir fá eigi undir risið ; enn áfergjuleg þjónustusemi angrar óvitrlega þann er menn unna, einkum þá er hún mælir með sér með ljóðasmíði og list, því að menn nema það skjótara og muna það gjarnara, er þeim þykir hlœgilegt, enn það,

er þeim þokknast og þykir mikils um vert. Eg hirði ekkert um þá þjónustusemi, er mér er til ama, og œski þess eigi, að vaxmynd af mér með afskræmdu andliti sé nokkurs staðar sett til sýnis, og eigi fýsir mig að vera lofaðr með illa ortum ljóðum, til þess að eg þurfi eigi að bera kinnroða fyrir það, að mér hafi verið gefin ófögr gjöf, og verði eigi ásamt skáldi mínu lagðr endilangr í opinn stokk, og borinn síðan niðr í stræti, þar er reykelsi er selt og aðrir ilmhlutir og pipar og hvað sem smekklausum ritum er vafið um.

## Annað bréf
### til
### Júlíus' Flórusar.

Ef einhver vildi eiga kaup við þig, Flórus, þú hinn tryggvi vinr hins góða og ágæta Nerós, og selja þér svein, þann er borinn væri í Tíbúri eða Gabsborg, og mælti svo við þig: 'Þessi sveinn, sem er hörundljós og fagr frá hvirfli til ilja, skal verða þinn og vera þinn fyrir átta þúsundir peninga; hann er heimalningr, vel fallinn til þjónustu eftir bendingum húsbónda síns; hann getr fleytt sér dálítið í grískri tungu og er vel lagaðr til hverrar sem einnar íþróttar; þú munt geta gjört[1] úr honum hvað sem þú vilt, eins og úr rökum leir, og hann mun jafnvel geta sungið, að vísu eigi af kunnáttu, enn þó svo, að skemtun sé að við drykk. Mörg loforð rýra traust manna, þá er sá, er út vill koma fölum varningi, lofar hann um of. Engin þörf knýr mig. Eg er að vísu félítill, enn á þó það, er eg hefi handa á milli. Enginn mansali mundi bjóða þér slíka kosti, og varla mundi hver maðr fá hið sama hjá mér. Eitt sinn hefir hann skotizt undan störfum sínum og falið sig í stiga, sem vant er að vera, af hræðslu við hina hangandi svipu', — ef svo væri við þig mælt, þá mundir þú greiða féð, ef þú setr eigi fyrir þig brotthlaup þrælsins, það er undan var skilið; enn seljandi mundi, að ætlan minni, fá verð sveinsins og vera áhyggjulaus um refsing. Þú hefir vísvitandi keypt

1) Hér er fylgt leshættinum: *imitaberis.*

gallaðan grip; þér hefir verið sagt ákvæði laganna. Ofsœkir þú þó seljanda og ónáðar hann með ósanngjarnlegri lögsókn?

Eg sagði þér, þegar þú fórst, að eg væri latr og nálega ófœr til slíkra starfa, til þess að þú skyldir eigi ámæla mér harðlega fyrir það, að ekkert bréf kœmi aftr frá mér til þín. Hverju hefi eg þá til leiðar komið, ef þú vilt alt að einu beita þeim lögum við mig, er með mér standa? Þú kvartar og yfir því, að eg sé lausorðr og sendi þér eigi þau kvæði, er þú hefir gert þér von um.

Einn af liðsmönnum Lúkúlls svaf einhverju sinni lúinn um nótt og hraut; misti hann þá gjörsamlega skotsilfrs síns, er hann hafði með margfaldri mœðu saman dregið. Gerðist hann þá glepsandi sem úlfr, og var jafnreiðr sér sem fjandmönnum sínum, var hann soltinn og grimmr og stökti, að sögn manna, liði konungs niðr af stað nokkurum, er var rammlega víggirtr og auðugr af margs konar gœðum. Varð þetta honum til ágætis, og hlaut hann fyrir það sœmilegar gjafir, og fékk þar með meira enn tuttugu þúsundir sextáneyringa. Í sama mund barst svo að, að hershöfðinginn vildi brjóta virki nokkurt, og tók því að hvetja þann hinn sama mann, og hafði þau orð við, er jafnvel hefði getað hert hug rags manns: 'Far, góðrinn minn, þangað er atgjörvi þín kveðr þig; farist þér hamingjusamlega; þú skalt fá mikil laun fyrir góða framgöngu. Hví stendr þú?' Nú mælti hinn allvitrlega, þó að hann væri bóndalegr: 'Sá mun fara þangað, er þú vilt, er mist hefir beltis síns'.

Mér hefir hlotnazt að fœðast upp í Rómi og frœðast um það, hve mikið tjón Achilles hafi unnið Grikkjum í bræði sinni. Hin góða Aþena jók nokkuð meira kunnáttu mína, það er að segja svo, að eg fékk vilja til að greina beint frá bognu og að leita sannleiksins í lundi Akadems; enn harðir atburðir fœrðu mig brott af hinum geðfelda stað, og öldur innanríkisstyrjaldarinnar fluttu mig, óherkœnan mann, til þeirra vopna, er eigi skyldi auðnast að reisa rönd við örmum Cesars Ágústs. Enn þegar er Filippsborg losaði mig við þenna hernað, lágfleygan og vængstýfðan, og sviftan heimkynni og landeign föður míns, þá rak hin áræðna

fátœkt mig til ljóðasmíðis; enn hverjar óðurtir[1] mundu nú mega nœgilega hreinsa mig, ef mér þœtti eigi svefn betri enn ljóðagerð, er eg hefi nú nœgilegt fyrir mig að leggja? Líðandi ár taka frá oss sinn hlut hvert; þau hafa svift mig gamni, ástum, mannboðum og leikum, og nú leita þau við að hrífa kveðskap frá mér; hvað vilt þú að eg geri? Enn er það, að allir dá eigi hið sama og hafa mætr á því; þér þykir gaman að harpkvæðum, öðrum að hraðhendum, hinum þriðja að bíónskum háðljóðum og meiðandi kímikvæðum. Mér virðast þrír samsætismenn vera nálega sinn á hverju máli og œskja mjög sundrleitra hluta, eftir því sem smekkr þeirra er ýmislegr. Hvað á eg að bjóða? Hvað á eg að láta óboðið? Þú drepr hendi við því, er annar vill fá; það sem þú beiðist, þykir hinum tveimr sannlega leitt og súrt. Hvort ætlar þú, að eg auk annars geti gert kvæði í Rómi, þar sem svo margar áhyggjur og svo mörg störf eru til fyrirstöðu? Sumir kveðja menn til að ganga í veð fyrir sig, aðrir til að hlýða á kvæði sín, og hljóta menn þá að hverfa frá öllum störfum sínum; einn liggr sjúkr á Kvírínshálsi, annar yzt á Aventínshálsi, og er skylt að líta til hvors tveggja; þú sér, að þetta er þokkalegr kippr; ‘enn strætin eru hrein’, segja menn, ‘svo að ekkert er því til fyrirstöðu, að menn geti hugsað með sjálfum sér’. Verktökumaðr skundar ákaft áfram með múla sína og burðarsveina; stundum vindr vél stein í loft upp, stundum geysistórt tré; hryggilegar líkfarir eiga fang við ramgerva vagna; á einum staðnum brunar fram óð tík, á hinum saurug gylta. Far nú og hugsa með sjálfum þér um hljómfögr vísuorð. Hver söngskari skálda hefir mætr á lundum og flýr borgir svo sem sannr skjólstœðingr Bacchs, er unir svefni og forsælu. Vilt þú, að eg kveði innan um þetta hark, er gengr nætr og daga, og feti í hin þröngu spor skáldanna? Vitmaðr, sá er tekið hefir hina mannfáu Aþenu sér til bústaðar, og varið þar sjö árum til náms, og hefir elzt við bœkr

1) Orðið *óðurt* (l. *cicuta*, sv. *odört*, d. *skarntyde)* finst eigi í íslenzkum orðbókum, enn kemr fyrir í handritinu ÁM. 696, 4to. Eg hefi tekið það úr orðsafni, sem aðjúnkt Steingrímr Thorsteinsson hefir góðfúslega léð mér.

og umhugsanir, er oftast þegjandalegri enn líkneskja, er hann gengr út, svo að lýðrinn hristist af hlátri, þá er hann sér hann; skyldi eg þá fá af mér að tengja hér saman þau orð, er vekja skuli hörpuhljóm, innan um þenna öldugang og óveðraham í borginni?

Í Rómi vóru tveir brœðr, lögfrœðingr og mælskumaðr; hvor þeirra heyrði einber sœmdarorð af munni hins, og lögfrœðingrinn kallaði mælskumanninn Gracch, enn mælskumaðrinn lögfrœðinginn Múcíus. Enn þjáir nú þessi vitfirring nokkru síðr hin söngauðgu skáld? Eg yrki harpkvæði, annar mishendur; er sú bragsmíð undrsamleg á að sjá, og hafa allar níu ljóðdísir myndað hana. Sjá þú fyrst, með hve miklum sjálfsþótta og með hve miklu drjúglæti við lítum kringum okkr og rennum augum okkrum til þess hofs, er autt er handa rómverskum skáldum; kom síðan með okkr, ef þú hefir tóm til, og heyr í fjarlægð, hvað hvor hefir að bjóða, og úr hverju hann fléttar sér höfuðgjörð. Við fáum högg og veitum fjandmanni okkrum jafnmörg högg, og erum sem Samnar, er við eigast seig vopnaskifti, þar til er ljós eru kveykt. Eg geng brott sem Alceus eftir dómi mótstöðumanns míns, enn hver verðr hann eftir mínum dómi? Hver nema Kallímachus? Og ef svo sýnist sem hann heimti enn meira, verðr hann Mímnermus, og vex vegr hans við það kenninafn, er hann kýs sér. Eg þoli margt, til þess að eg fái blíðkað hið fyrtna skáldakyn, þá er eg yrki og leita auðmjúkr hylli lýðsins, enn ef eg í annan stað hætti við iðn mína og næði að endrvitkast, þá mundi eg geta byrgt refsingarlaust hin opnu eyru mín fyrir upplesöndum. Að þeim er hlegið er léleg kvæði yrkja, enn þeir hafa sjálfir yndi af því að yrkja, og þeim þykir mikið til sín koma, og þeir verða fyrri að bragði, ef þagað er, til að lofa alt það sem þeir hafa ort, og eru sælir af. Enn sá er girnist að gera fullgilt kvæði, hann á, um leið og hann tekr ritspjaldið, að taka sér hugsunarhátt heiðvirðs ritdómara; hann á að hafa áræði til að fjarlægja hvert það orð, er of lítinn ljóma hefir, er afllaust er og þykir ómaklegt heiðrs, þótt það fari nauðugt á braut og

sé enn í hofsölum Vestu. Hann á sem gott skáld að grafa upp og leiða í ljós fögr hluta heiti, er lengi hafa lýðnum huld verið og hinir fornu Katónar og Ceþegar viðhöfðu, enn nú liggja byrgð undir ófagri myglu og eru gleymd fyrir fyrnsku sakir; hann á að taka upp ný orð, þau er hin skapandi máltíðska getr af sér. Hann skal, sem stríð og tær og hrein á, bera auðlegð með sér, og farsæla Latland með auðgu tungubragði; hann á að skera þær greinir af, sem ofvöxtr er í; hann á að slétta það með skynsamlegri rœktun, sem er of óþýtt; hann á að nema burt afllaus orðtök; hann á að sýnast vera að leika sér, og þó taka nærri sér eins og sá, sem ýmist dansar eftir Satýr, eða eftir ruddalegum Kyklóp (Hringeygingi).

Eg vildi heldr kjósa að vera talinn örvita skáld og ónýtt, ef mér að eins þœtti vænt um galla mína, eða þeir að minsta kosti dyldist mér, heldr enn að vera heilvita og hafa hugraun af kveðskap mínum. Í Argosborg var maðr nokkur eigi óvirðulegr; hann sat glaðr og með handaklappi í tómu leikhúsi og þóttist heyra leik ágætra harmleikanda; enn í öðru gætti hann þó starfa lífsins á réttan hátt, og var að vísu góðr nábúi, ástúðlegr heim að sœkja, þýðr við konu sína, gat fyrirgefið þrælum sínum, og lét eigi sem óðr maðr, þótt innsigli á flösku væri brotið; hann gat varazt hamra og opinn brunn; enn er honum batnaði við liðsinni og forsjá frænda sinna og hann fékk brott rekið sjúkdóm sinn og gallmein með óblandinni hnerrarót, og hann náði sér aftr, mælti hann: ‘Sannlega hafið þér fyrirfarið mér, vinir, enn eigi borgið mér, þar sem eg hefi verið sviftr skemtun minni og hin geðfelda hugarvilla mín hefir verið frá mér tekin með ofríki’.

Það er auðsjáanlega gagnlegt að sleppa hégóma og haga sér skynsamlega, og fá börnunum leikfangið, því að það á vel við þau, og leita eigi þeirra orða, er leika megi á latneska fiðlu, heldr nema fyllilega lög og háttu hins sanna lífs. Fyrir þá sök segi eg þetta við sjálfan mig og íhuga það þegjandi: ‘Ef engin vatnsgnótt mætti hefta þorsta þinn, mundir þú segja læknum frá því; enn hefir þú þá eigi þor til að játa fyrir neinum, að þú girnist því fleira,

sem þú hefir fleiri hluta aflað? Ef þér væri vísað á rót eða gras og sár þitt batnaði eigi við það, þá mundir þú varast að leita þér lækningar með rót eða grasi, er ekkert stoðaði. Þú hafðir heyrt, að rangsnúin heimska hyrfi frá þeim manni, er guðirnir gæfi fé; ætlar þú samt að hlíta áminningum hinna sömu manna, þó að þú sért engu spakari, eftir það er þú ert auðgari orðinn? Enn ef auðlegð fengi gert þig vitran og minkað girndir þínar og ótta, þá mundir þú eflaust roðna, ef nokkur lifði á jörðunni ágjarnari enn þú einn'.

Ef það er eign manns, er hann hefir keypt með vog og eiri og afneyzlan heimilar manni sumt, ef trúanda er lögfróðum mönnum, þá er sá akr þinn, er þig fœðir, og bústjóri Orbíusar finnr, að þú ert húsbóndi hans, er hann herfir það sáðland, er síðar mun veita þér korn. Þú lætr fé af hendi, enn fær vínber og unga, egg og vínkrukku; með þeim hætti kaupir þú þó smámsaman akrlendi, er vera má að áðr hafi keypt verið fyrir þrjú hundruð þúsund peninga, eða jafnvel meira. Hverju skiftir, hvort þú lifir við það, er fé hefir nýlega verið greitt fyrir, eða fyrir löngu? Sá er fyrir löngu hefir keypt akrlendi við Ariciu og Veiborg, borðar keypt kálmeti, þótt hann ætli annað; hann heitir eirker sitt með keyptum viði, er hin kalda nótt fer í hönd, enn kallar þó sína eign alt að því marki, er öspin er sett við glöggvar markreinar og varnar á þann hátt nábúakryt, svo sem nokkur maðr eigi nokkuð það, er á hverfulli svipstundu skiftir um eigendr, ýmist fyrir bœnarstað manna, eða við kaup og sölur, eða fyrir ofríkis sakir, eða dauðann, er alls er endir, og hverfr svo í annars manns eign.

Með því nú þannig engum veitist ævinleg neyzla, og erfingi kemr á annars erfingja ofan, sem alda á öldu ofan, hvað stoða þá bœir og kornhlöður eða lúkönsk beitilönd, þótt þau sé lögð við beitilöndin í Kalabríu, ef Orkus (Undirheimsguð), er eigi gengst fyrir gulli, sker upp stórt með smáu?

Sumir eiga eigi gimsteina, marmara, fílsbein, týrverskar smámyndir, litmyndaspjöld, silfrsmíði, eða klæði, þau er

dýft hefir verið í getúlskan litsafa; aðrir hirða eigi um að eiga þetta. Æviguðinn, er manninum fylgir, og stýrir fæðingarstirni hans, ræðr eðli manna, og deyr með hverjum sem einum manni, breytilegr að ásýnd, hvítr og svartr, hann veit, hvers vegna annar bróðirinn vill heldr lifa í næði, skemta sér og smyrjast, heldr enn að eiga ena frjóvu pálmskóga Heródesar, enn hinn á auð fjár, leggr hart á sig, og ryðr skóglendi með eldi og járni frá aftreldingu alt til kvelds.

Eg ætla að neita míns, og taka af hinni litlu hrúgu svo mikið sem þörf krefr, og hirða eigi um, hvern dóm erfingi minn leggr á mig, fyrir það að hann hefir eigi meira fundið enn það, er eg hefi honum eftir látið; enn þó þœtti mér gaman að vita, hve mikill munr er á óbreyttum glaðværðarmanni og eyðslumanni, og hve mikið skilr sparsaman mann og nirfil, þvíað munr er á, hvort þú fleygir þínu út með eyðslusemi, eða þú ert eigi ófús að leggja fé í kostnað, og hirðir eigi um að auka fé þitt, enn skýzt heldr til að njóta geðfeldrar svipstundar, svo sem sveinar eru vanir að gera á Mínervuhátíð.

Veri hús mitt laust við óþrifalega fátœkt; eg mun vera einn og hinn sami, hvort sem eg flytzt á stóru skipi eða smáu. Vér berumst eigi með fullum seglum í hagstœðum norðanvindi; enn ölum þó eigi ávalt aldr vorn svo, að vér hafim sunnanvinda í mót oss; vér erum aftastir af hinum fremstu að afli, mannviti, yfirlitum, atgervi, stöðu og efnahag, enn þó jafnan fremri enn hinir öftustu.

Þú ert eigi fégjarn maðr; vel er það. Enn aðrir lestir? hafa þeir horfið á braut með þeim lesti? Er sál þín laus við hégómlega metorðagirnd? Er hún laus við ótta dauðans og reiði? Hlær þú að draumum, skelfingum töframanna, undrum, seiðkonum, nætrdraugum og þessölskum töfrum? Telr þú þakklátlega burðardaga þína? Fyrirgefr þú vinum þínum? Verðr þú blíðari og betri, eftir því sem ellin fœrist yfir þig? Hvað gagnar þér, þótt einn þorn af mörgum sé brott numinn? Ef þú kant eigi að lifa réttlega, þá skaltu þoka fyrir þeim, er betr kunna. Þú hefir leikið þér nógsamlega, etið og drukk-

ið nógsamlega; nú er tími til kominn fyrir þig að fara brott, til þess að þú drekkir eigi meira enn vel hlýðir, og til þess að menn á þeim aldri, er glens á betr við, hlæi eigi að þér og misþyrmi þér.

## Þriðja bréf
til
### þeirra Písóna
eða
### Skáldskaparmál.

Ef litmyndamaðr vildi tengja hrossháls við mannshöfuð, og draga ýmislega litar fjaðrir á limu, er hann hefði hvaðan æfa saman tínt, svo að mynd, er að ofan væri fögr kona, endaði ljótlega, og yrði neðst að svörtum fiski, munduð þér þá, vinir, mega verjast hlátri, ef yðr væri aðganga veitt til að sjá slíka mynd? Trúið mér, Písónar, að slíku litmyndarspjaldi mundi sú bók lík verða, er í eru gerðar hégómlegar myndir, sem draumar sjúks manns, svo að hvorki fótr né höfuð á við hina sömu mynd. Litmyndamönnum og skáldum hefir þó jafnan verið heimilt, sem viðrkvæmilegt er, að áræða hvað sem vera vill. Vér vitum það, og beiðumst þessa tillætis, og veitum það í mót, enn þó eigi svo, að hið grimma samlagist við hið blíða, höggormar þýðist fugla, eða lömb tígra.

Þá er stórfengileg og mikilvænleg kvæðasmíð er hafin, er oftast þar á saumuð einhver purpurapjatla, er vítt megi ljóma af bera, og er þá lýst lundi og stalla Díönu og læk, er rennr í bugum með hraða um unaðlegar ekrur, eða ánni Rín eða regnboganum; enn þetta átti *nú* ekki við. Má vera, að þú kunnir að mynda kúpress, enn hvað á það við, ef sá er lætr litmynda sig og hefir goldið fé fyrir, syndir móti von sinni í land eftir skipbrot. Byrjað hefir verið að gera stórt leirker, enn hví kemr þá fram smákrukka, er hjólið snýst? Skjótt að segja, hvert kvæði skal að eins vera einfalt og eitt.

Mestr hluti vor skáldanna, faðir og þið hinir ungu menn, er samboðnir eruð föður ykkrum, tælist af því sem sýnist vera rétt. Eg leita við að vera stuttorðr, enn verð þá ó-

glöggr; þann brestr afl og andríki er fága vill; sá verðr íburðarmikill, er ná vill hinu háleita; sá skríðr með jörðu, er of var er og hræddr við ofviðri, og sá litmyndar höfrung í skógi og villisvín í öldum úti, er gera vill tilbreyting á hinum sama hlut á undrsamlegan hátt.

Viðleitnin að forðast löst leiðir til galla, ef kunnáttu vantar. Hinn lakasti smiðr, er býr við skylmiskóla Emíls, mun bæði geta myndað neglr manna vel og líkt eftir mjúku hári í eiri, enn honum heppnast þó eigi smíðið alt, af því að hann kann eigi að mynda heildina. Eigi vildi eg fremr vera sem þessi maðr, ef eg vildi semja eitthvað, heldr enn að byrðast með skakkt nef, enn vera þó sjálegr með svört augu og svart hár.

Takið þér, skáld, efni það sem eigi er ofvaxið kröftum yðrum, og hugsið lengi um, hvað herðar yðrar skerast undan að bera, og hverju þær valda. Þann er hefir valið sér efni eftir mætti sínum, mun hvorki orðsnild skorta, né ljósa niðrskipun. Ef mér missýnist eigi, þá er það kostr góðrar niðrskipunar, og fegrð hennar er í því fólgin, að segja það *einmitt nú*, er *einmitt nú* á að segja, enn fresta flestu og sleppa því að sinni. Höfundr fyrirheitins kvæðis á að vera glöggr og varúðugr í samtengingum orða, og aðhyllast sumt, enn hafna hinu. Ágætlega geta manni farið orð, ef kœnlegt orðasamband gerir kunnugt orð nýtt. Ef nauðsyn kann til að bera, að sýna ókunnar hugmyndir með nýjum táknunum, þá mun unt vera að mynda orð, þau er eigi hefir borið fyrir eyru hinna pilsklæddu Ceþega, og verðr það leyfi veitt, ef þess er neytt með hœversku. Ný orð og nýmynduð munu þokkasæl verða, þó að þau komi frá grískri uppsprettu með hóflegri breytingu. Enn hvað munu Rómverjar veita Cecilíusi og Plátusi, er þeir meina Virgli og Varíusi? Hví er *mér* fyrirmunað að mynda fáein ný orð, ef eg get, þar sem tunga Katós og Enníusar hefir auðgað mál feðra vorra og leitt í ljós ný hluta heiti? Það hefir leyfilegt verið og mun jafnan leyfilegt vera að koma fram með orð, það er markað er með móti núlegs tíma.

Svo sem skógar skifta laufi á hverju líðanda ári, og hin fyrstu lauf falla, svo líðr hin forna kynslóð orða undir lok,

og nýmynduð orð blómgast og þróast sem uppvaxandi menn. Vér erum í skuld við dauðann um sjálfa oss og efni vor. Hvort sem Neptúnus hefir verið tekinn inn í land og skipafloti er þannig varinn fyrir norðanvindum, og er það konunglegt verk, eða mýri, sú er lengi hefir ófrjó verið og til róðrar fallin, elr grannborgir og kennir þungs plógs, eða á hefir betri leið kend verið, svo að hún hefir breytt rás sinni, er óhagfeld var fyrir jarðargróða: munu dauðleg verk líða undir lok, og er því síðr ætlanda, að mál manna haldi stöðugri virðingu og ástsæld. Mörg orð, þau er nú eru fallin, munu endrfœðast, og þau orð falla, sem nú eru í áliti, ef máltíðskan vill svo, þvíað í hennar hendi er stjórn málsins, forræði og reglur fyrir því.

Hómer hefir sýnt, með hverjum braghætti yrkja skyldi um afrek konunga og liðshöfðingja og hryggilegar styrjaldir. Fyrst vóru harmtölur inni luktar í mislöng vísuorð samtengd; enn síðan var þar og inni byrgð hugsun þess manns, er náð hafði ósk sinni, enn þó er áskilnaðr með ritskýröndum um það, hver fyrstr hafi viðhaft enar lítilmótlegu mishendur, og enn er það mál undir hendi dómarans. Bræðin vopnaði Archíloch með hraðlið sjálfs hans, og tóku lágskór sér þann braglið og hinir stórmannlegu háskór, með því að hann á vel við samrœður manna og tekr yfir hark lýðsins og er vel til athafna fallinn; enn ljóðdísin hefir veitt hörpunni að kveða um guði og börn guðanna, um sigrvegara í hnefleik, og hest þann er fyrstr hefir orðið í kapprás, svo og um áhyggjur ungra manna, og vínið, er manninn gerir frjálsan.

Hví em eg skáld kallaðr, ef eg ber eigi skyn á að gæta ætlunarverka, svo sem þeim er skipað, og þess blæs, er á hverri kvæðistegund á að vera? Hví vil eg heldr vera kunnáttulaus af rangri blygðun, enn nema? Gamanleiksefni vill eigi, að það sé fram flutt með harmleiklegum vísuorðum; svo þykir og máltíð Þýests óviðrkvæmilegt, að frá sér sé sagt með þeim kveðskap, sem óbreyttr er og nálega samboðin lágskóm; hvað eitt skal halda sœmilega þeirri stöðu, er það hefir hlotið. Þó brýnir gamanleikskvæði og stundum rödd sína, og Cremes sennir í reiði sinni þrút-

num munni, og harmleiksmennirnir, Telefus og Pelevs, birta oftast harm sinn með hversdaglegu máli, er þeir lifa í fátœkt og útlegð, og kasta báðir frá sér málskrúði og hálfs annars fets orðum, ef þeir vilja koma við hjarta áhorfandans með harmtölum sínum.

Eigi er það nœgilegt, að kvæði sé fögr; þau eiga að vera unaðleg og leiða hug áheyrandanna hvert sem þau vilja. Svo sem mannlegt andlit hlær með hlæjöndum, svo grætr það með grátöndum. Ef þú vilt, að eg gráti, þá verðr þú sjálfr fyrst að vera hryggr, þá mun eg komast við af giftuleysi þínu, Telefus eða Pelevs. Enn ef þið talið orð, er ykkr eru óviðrkvæmilega í munn lögð, þá mun mig annaðhvort syfja eða eg mun brosa. Hryggileg orð sœma hryggilegu yfirbragði, enn reiðilegu ógnandi orð; glaðlegu glensleg orð og alvarlegu alvarleg orð; þvíað náttúran lagar fyrst skap vort eftir hvers konar giftuhag; hún gleðr oss eða knýr oss til reiði, eða dregr oss til jarðar með þungum harmi og þröngvir oss; síðan leiðir hún geðshrœringar vorar í ljós með túlkun tungunnar.

Ef orð þess, er mælir, eru sundrleit við hag hans, munu hinir rómversku riddarar og fótgöngumenn reka upp skellihlátr. Mikill munr er á því, hvort guð talar eða hálfguð, svo og, hvort aldrað gamalmenni talar, eða fjörugt ungmenni, sem enn er í œskublóma; hvort voldug hefðarkona mælir, eða aðgætin fóstra; hvort víðförull kaupmaðr rœðir, eða yrkjandi grœnnar ekru; hvort kolkneskr maðr talar, eða assýrskr, eða sá er upp hefir fœðzt í Þebu eða Argosborg.

Fylg annaðhvort fornri frásögn, eða bú eitthvað til, það er sjálfu sér er samkvæmt. Ef svo kann til að bera, að þú, skáld, komir fram með hinn virðulega Achilles, þá á hann að vera ótrauðr, skapbráðr, torbœnn, ákaflyndr; hann skal neita því, að sér sé lög sköpuð, og hyggja alt vopnum sínum fœrt. Medea á að vera grimm og ófyrirlátsöm, Ínó grátgjörn, Ixíón prettvís, Íó reikul, Órestes dapr.

Ef þú kemr með eitthvað á leiksviðið, það sem eigi hefir áðr reynt verið, og áræðir að mynda nýja skapshöfn, þá skal gæta þess, að hún sé slík til enda, sem hún kom

fyrst fram og sé sjálfri sér samkvæm. Torvelt er að fara svo með alment efni, að það birtist sem eiginlegt verk skáldsins, og er réttara, að þú gerir leikþáttu úr Ilíónskvæði, enn að þú komir fyrstr fram með það, er ókunnugt er og enginn hefir áðr fram flutt. Alment efni getr orðið þín eigin eign, ef þú heldr þér eigi við hinn auðvirðilega sagnahring, er öllum stendr opinn, og hirðir eigi um að vera svo trúr þýðandi, að orð svari orði, og hleypir þér eigi með eftirlíkingu í þá kreppu, að ófremd eða ritsmíðarlögmál banni þér að hrœra þaðan fót þinn, og eigi skalt þú byrja eins og hringskáldið byrjaði forðum: 'Eg ætla að kveða um hag Príams og hina alkunnu styrjöld'. Hvað mun þessi skrumari geta á borð borið, það er sambjóði slíkum digrmælum? Fjöll taka jóðsótt og mun fœðast hlœgileg mús. Hve miklu réttara fer sá að, er ekkert tekr sér ólaglega fyrir hendr? 'Seg mér, ljóðdís, frá þeim manni, sem sá siðu margra manna og borgir, eftir það er Trója var tekin'. Hann ætlar sér eigi að gera reyk úr ljóma, heldr birtu úr reyk, til þess að hann geti síðar birt glæsileg undr, Antífates og Skyllu, Karybdis og Kyklóp; og eigi byrjar hann heimför Díómedesar frá fráfalli Meleagers, og eigi hefr hann frásögn sína um hina tróversku styrjöld með því að segja frá tvíburaegginu. Hann hraðar sér jafnan til endalyktarinnar, og hrífr áheyrendrna inn í miðja athöfnina, eins og hún sé kunnug; hann leiðir það hjá sér, er hann örvæntir um að fagrt geti orðið í meðferðinni, og fer svo með skrök, og blandar svo satt með ósönnu, að miðjan er eigi sundrleit við upphafið, og endirinn eigi við miðjuna.

Heyr þú nú, hvers mig fýsir og lýðinn með mér. Ef þú œskir þér klappanda, er bíði þess að tjaldið sé upp dregið, og sitji alt þar til er leikandinn segir: 'klappið þér', verðr þú að taka eftir lundarlagi hvers aldrs og veita hinu breytilega eðlisfari og árum það sem þeim er eiginlegt. Þegar er *barnið* er farið að tala og hefir fengið stöðugan fótaburð, fýsir það mjög að leika við jafnaldra sína; það reiðist og afreiðist af litlu efni, og breytist á hverri stundu.

*Skegglaus œskumaðr*, er loks er orðinn laus við vörð sinn, hendir gaman að hestum og hundum og grasi hins sólsæla

vallar; hann er vaxmjúkr til að hneigjast til lasta, er ódæll við áminnendr, seinn að sjá fyrir hagsmunum sínum, eyðslusamr á fé, háhugsi, ákafr í girndum sínum, og fljótr til að hverfa frá því er hann hefir haft mætr á.

Enn breytast ástundanir hins *unga manns*, og hinn karlmannlegi aldr og hugr sœkir eftir efnum og vináttusamböndum, leitar mannvirðinga og varast að hafast nokkuð það að, er hann þykist síðar þurfa að breyta.

Mörg óhœgindi sœkja *gamlan mann*, sumpart af því, að hann, aumr maðr, heldr sér frá því, er honum hefir hlotnazt, og tímir eigi að njóta þess, sumpart af því að hann gengr að öllu með kvíða og deigum hug, er frestgjarn, vonar langt fram í tímann, er aðgerðalaus og langar til að lifa lengi; hann er stirðlyndr, kvartsamr, lofar þann tíma, er leið þá er hann var í bernsku; hann finnr að við yngri menn og er vandlætingasamr við þá.

Mörg hœgindi hafa hin ókomnu ár í för með sér, og mörg hœgindi taka hin liðnu ár á braut með sér. Oss ber jafnan að gæta þess, er á við hvern aldr og honum er eðlilegt, svo að hlutverk gamals manns verði eigi selt ungum manni í hendr, né hlutverk fullorðins manns ungsveini.

Annaðhvort fer athöfnin fram á leiksviðinu, eða sagt er frá, að hún hafi fram farið. Það hefir síðr áhrif á hugi manna, er um eyrun líðr, enn það, sem ber fyrir hin áreiðanlegu augu og áhorfandinn segir sér sjálfr. Þó skal eigi koma fram á leiksviðið með það, er inni á að gerast, og margt það skal úr augsýn nema, er orðsnjallr viðrvistarmaðr skal síðar frá skýra. Medea skal eigi drepa börn í augsýn lýðsins, og eigi skal hinn guðlausi Atrevs sjóða manns innýfli opinberlega, né Prokne breytast í fugl, né Kaðmus í orm. Mér er óþokki á hverju því, er þú sýnir mér þannig, og eg legg eigi trúnað á það. Sú leiksaga, er vill láta œskja sín, og vera leikin oftar enn einu sinni, skal hvorki vera skemri né lengri enn fimm þættir; svo skal og enginn guð vera í leiknum, nema sá hnútr verði fyrir, er slíks leysanda þurfi, og eigi skal hinn fjórði leikandi leita við að mæla.

Söngflokkrinn á að gæta hlutverks og starfs einstaks leik-

anda, og eigi skal hann syngja neitt inni í leikþáttunum, það er eigi styðji efnið og eigi vel við það; hann á bæði að unna góðum mönnum og veita þeim vinsamleg ráð, stýra lund reiðra manna og unna grandvörum mönnum; hann á að lofa stutt borðhald og heilsusamlegt réttlæti og lög og rétt, og kyrð og ró, er hlið eru opin. Hann á að leyna trúnaðarmálum, biðja til goðanna og beiðast þess, að hamingjan hverfi aftr til aumra manna, enn snúi brott frá dramblátum.

Hljóðpípan var eigi fyrr vöfð messing, sem nú, og kappkostaði eigi að líkjast herlúðri, heldr var hún mjó og einföld og fáboruð, enn var þó hæf til að taka undir með söngflokkunum og fulltingja þeim, og fylla með hljómi sínum sæti manna, er enn vóru eigi of þétt skipuð, þvíað sá lýðr, er þangað kom, var að vísu auðtalinn, með því að hann var fámennr og var hófsamr, hreinlífr og siðsamr; enn síðan er hann tók að fœra út landamæri með sigrvegningum, og víðari veggir tóku að girða borgir, og tekið var að ósekju að blíðka æviguðinn á hátíðum með víni um hábjartan dag, þá fœrðist meira sjálfræði í kveðandi og bragháttu, enn áðr var, þvíað hverja fegrðartilfinning gat ófróðr og ósiðaðr bóndi haft, er laus var við störf sín og í samsæti með snyrtilegum og heiðvirðum borgmanni? Þannig bœtti hljóðpípublásarinn hrœring og viðhöfn við hina fornu list og dró reikull slœðurnar eftir sér um leikpallana; svo uxu og raddir hinnar alvarlegu hörpu; hin djarfa orðsnild tók að viðhafa óvanaleg orðtök. Efni kvæðisins, er hugkvæmt var um nytsamlegar kenningar og sá hið ókomna fyrir, var svipað véfréttunum í Delfsborg.

Sá er kepti með hafrkvæði um lítilsverðan bukk, lét og skömmu síðar hina sveitalegu satýra koma nakta fram. Var hann að vísu nokkuð svæsinn, enn gekk þó eigi of nærri alvörugefninni, og freistaði gamans, þvíað skemta þurfti áhorföndunum með einhverjum tillokkunum og þægilegri nýbreytni, er þeir höfðu lokið fórnum sínum, vóru ölvaðir og engum lögum bundnir. Enn því að eins byrjar að mæla með hinum hlátrgjörnu og hæðnu satýrum, og snúa alvöru í gaman, að hver sá guð eða hálfguð, sem látinn er fram koma og nýlega hefir sézt í konunglegu gullskrúði og

purpuraklæðum, flytji sig eigi með ruddalegu orðbragði í auðvirðilega kofa, né reyni til að ná í skýin og loftauðnina, meðan hann vill firrast jörðina. Tragödían (harmleikskveðskaprinn) er of góð til að taka sér léttúðleg orð í munn, og á því að vera nokkuð feimin meðal hinna gáskafullu satýra, eins og hefðarkona, er kvödd er til að stíga dans á hátíðisdögum.

Ef eg semdi satýrleik, Písonar, þá mundi eg eigi viðhafa að eins óskreytt og óbreytt orð og heiti, og eigi mundi eg heldr gera mér far um, að vera svo langt frá harmleiksblænum, að enginn munr væri á, hvort Davus talaði og hin ósvífna Pýþías, er hún hefir leikið á Símon og haft af honum vætt fjár, eða Sílenus, vörðr og þjónn guðsins fóstrsonar síns. Eg mundi leita við, að laga svo kvæði af kunnu efni, að hver sem einn þœttist geta gert slíkt hið sama, sveittist mjög, og ynni þó fyrir gýg, ef hann reyndi það. Svo mikið er afl raðar og samtengingar, og svo veglegt getr það orðið, er tekið er úr hversdaglegu lífi. Fánar (landvættir), sem eru látnir koma fram úr skógum, eiga, að mínum dómi, að varast að haga sér sem þeir sé upp fœddir í miðri borginni og hafi nálega ávalt verið á torginu, og eiga hvorki nokkuru sinni að taka sér í munn of ungmannleg og snyrtileg vísuorð, né heldr fara með saurug og meiðandi orð, því að við það styggjast þeir menn, er hest eiga og gott faðerni og góðan fjárstofn, og þótt kaupöndum steiktra fuglbauna og hnota líki eitthvað, geðjast það eigi slíkum mönnum, og eigi veita þeir mönnum kórónu fyrir það.

Þá er löng skammstafa kemr eftir skamma, er það kallað hraðliðr. Það er skjótr bragliðr, og af því hefir hann gefið hraðliðuðum vísuorðum nafnið *prí*mælingar, þótt hann gerði *sex* slætti í hverju vísuorði. Var hann fyrst líkr sjálfum sér frá upphafi til enda; enn eigi alls fyrir löngu var hann svo tilhliðrunarsamr og eftirlátr, að hann veitti hinum stöðugu fórnarliðum hlutdeild í arfgengum réttindum sínum, til þess að hann kœmi dálítið seinni og virðulegri fyrir eyru manna; enn þó var hann eigi svo tillátsamr, að hann viki af öðru sæti eða hinu fjórða. Þessi bragliðr er bæði fágætr í hinum ágætu þrímælingum Aksíusar, og ber ljóta sakar-

gift á vísuorð Enníusar, er kastað er inn á leiksviðið með miklum þunga, og ásakar höfundinn fyrir of mikla fljótvirkni og hroðvirkni, eða kunnátttuleysi.

Eigi sér hver og einn dómari braglýti á kvæðum, og menn hafa verið ótilhlýðilega vægir við hin rómversku skáld. Ætti eg fyrir þá sök að vera laus í rásinni og yrkja hirðulauslega? Eða á eg að ímynda mér, að allir sjái galla mína, enn lifa þó í voninni um fyrirgefning og þykjast þannig vera öruggr og hólpinn? Eg hefi á endanum komizt hjá ámæli, enn eigi til lofs unnið.

Hafið grískar fyrirmyndir í höndum nótt og dag. Enn forfeðr yðrir hafa lofað bæði kveðandi Pláts og orðkringi hans, og hafa þeir undrað hvort tveggja og í því farið alt of vægðarsamlega að, að eg eigi segi heimskulega, svo framarlega sem vér, eg og þér, kunnum að greina fyndni frá smekkleysum, og finnum réttan hreim með fingrum og eyra.

Mælt er, að Þespis hafi fyrstr fundið harmleikskveðskap, er áðr var ókunnr, og flutt kvæði á vögnum, þau er þeir menn, er borið höfðu dreggjar í andlit sér, skyldu kveða og leika.

Eftir hann kom Eskýlus; hann fann grímuna og hina virðulegu skikkju, og lagði leikpall á litla bjálka og kendi mönnum að viðhafa háfleygt orðbragð og ganga á þykksólungum.

Því næst kom hinn forni gamanleikskveðskapr, og fékk hann mikið lof; enn sjálfræðið hné til ósiðar og ofríkis, er hefta þurfti með lögum. Lögin vóru samþykt, og söngflokkrinn þagnaði við smán, er hann hafði eigi lengr heimild til að gera mein.

Skáld vor létu einskis ófreistað, og eigi var sá sómi minstr, er þau unnu til, þá er þau réðust í að hverfa frá fótsporum Grikkja og víðfrægja það, er gerzt hafði hjá sjálfum þeim, hvort sem það vóru þau skáld, er sömdu borðaskikkjukvæði, eða þau, er skikkjukvæði ortu, og eigi mundi Latland vera máttkara af manndáð og herfrægð, enn af tungu sinni, ef erfiði og yfirlega vandvirkninnar væri eigi öllum skáldum leið. Þér, frændr Pompíls, finnið að hverju því kvæði, er langr tími og margt stryk hefir eigi

endrbœtt, og eigi hefir tíu sinnum vandlega fágað verið, þar til er það varð gallalaust.

Af því að Demókrítus ætlar, að hugvit sé hamingjuvænlegra enn vesöl kunnátta, og byrgir heilvita skáld úti frá Helíkónsfjalli, eru það allmargir, er eigi hirða um að skera neglr sínar eða skegg sitt, leita afvikinna staða, enn firrast baðhús, þvíað menn munu fá gildi og nafn skálds, ef þeir leggja aldrei höfuð sitt, er eigi verðr læknað með hnerrarót frá þremr Anticýrum, undir hendr hárskerans Lícíns. Mikill heimskingi er eg, að eg skuli hreinsa gall mitt undir vorið. Ef eg gerði það eigi, mundu eigi aðrir yrkja betr enn eg. Enn það (að missa heilsuna) er alls eigi tilvinnanda. Eg ætla því að gera sama sem hverfisteinn. Hann getr brýnt járnið, enn eigi skorið sjálfr. Eg ætla ekkert sjálfr að semja, enn ætla þó að kenna, hvert ætlunarverk og skylda skáldsins sé, hvar yrkisefni megi fá, hvað glœði skáldskapargiftina og myndi skáldið, hvað vel fari og hvað eigi, hvert kunnátta leiði, og hvert vankunnátta.

Upphaf og undirstaða rétts kveðskapar er að bera skyn á það, er um skal yrkja. Efnið munu rit Sókratinga sýna þér, og er efnið er fengið, mun eigi orð skorta. Sá er hefir numið, um hvað hann er skyldugr ættjörðu sinni og um hvað vinum sínum, hvílíka ást beri að sýna föður sínum og bróður og gistivin, hver sé skylda ráðherra og dómara, og hver sé sýsla fyrirliða, þess er í hernað er sendr, hann kann sannlega að fá hverjum manni það hlutverk, er við hann á. Eg vil ráða skáldinu að líta á líf og siðu manna sem fyrirmynd og líkja þar eftir með íþrótt, og nema þaðan lifandi orð. Leiksaga sú er auðug er að réttum hugsunum og lýsir rétt siðum manna, enn vantar þó unaðleik, kraft og list, skemtir mönnum stundum betr og styttir þeim betr stundir, enn hugsunarsnauð ljóð og hljómmikið þvaðr.

Ljóðdísin hefir veitt Grikkjum, er eigi eru ágjarnir á neitt nema lof, andagift og sléttmælgi, enn rómverskir sveinar læra með löngum reikningum að deila einpening í hundrað hluti. 'Segi sonr Albíns: ef tólftungr er tekinn af fimm tólftungum, hvað verðr þá eftir? Þú hefðir átt að geta sagt það'. 'Það er þriðjungr einpenings'. 'Það er gott; þú

munt geta litið eftir eigum þínum. Nú bœtist tólftungr við, hvað verðr það?' 'Hálfr einpeningr.' Enn þegar nú þessi sori og auragirnd hefir eitt sinn grómtekið sál mannsins, getum vér þá vonað, að þau kvæði verði ort, er þess sé verð, að þau sé smurð með cedrusolíu og geymd í fáguðum kúpressusstokk?

Annaðhvort vilja skáldin gera gagn eða skemta, eða mæla það, er í einu er þægilegt og hagfelt lífi manna. Hvað sem þú kennir, þá ver fáorðr, til þess að námfúsar sálir geti numið það fljótt, er sagt er, og geymt það trúlega. Alt það er um of er, rennr brott úr fullu brjósti mannsins.

Það sem diktað er fyrir gamans sakir, á að vera sönnu næst, og segi eg það, til þess að menn ætlist eigi til þess í leiksögu, að þeim sé trúað til hvers þess er þeir vilja, né láti draga lifanda barn úr kviði Lamíu, er hún hefir etið það.

Sveitir hinna öldruðu hrinda því frá sér, er gagnslaust er, enn Ramnar ganga hnakkakertir fram hjá alvarlegum kvæðum. Sá hlýtr allra lof, er sameinar hið nytsamlega og hið unaðlega með því að skemta lesanda sínum um leið og hann áminnir hann. Slík bók aflar Sósíum fjár, fer út yfir haf, og lengir ævidaga höfundar síns, er verðr víðfrægr maðr.

Til eru þó yfirsjónir, er vér vildum fyrirgefið hafa, þvíað eigi kemr jafnan það hljóð úr strengnum, er hönd og hugr vill, og alloft fá menn hvellt hljóð, er þeir vilja fá djúpt, og eigi hœfir boginn það ávalt, er hann hótar að ljósta; enn þá er meiri hlutinn er fagr í einhverju kvæði, mun eg eigi hneyklast á fáeinum smálýtum, er annaðhvort eru sprottin af vangá, eða mannlegu eðli hefir eigi nógsamlega tekizt að varast. Hvað er þá um þetta að segja? Svo sem þeim bókritara verðr eigi fyrirgefið, er ávalt yfirsést í hinu sama, þótt hann sé ámintr, og svo sem hlegið er að þeim gígjara, er jafnan villist á hinum sama streng, svo set eg þann mann, er mjög mikið yfirsést, á bekk með hinum orðlagða Chörílus, er eg dáist að með brosi, ef honum tekst vel tvisvar eða þrysvar, en hins vegar sárnar mér, hvert sinn sem hinn

góði Hómer dottar; enn þó er það eigi tiltökumál, að svefn sœki mann við langan starfa.

Svo er um skáldskap sem litmyndir. Sumar litmyndir munu betri þykja, ef nálægt er staðið, enn aðrar, ef menn standa firr; sumar elska myrkrið, aðrar munu vilja láta sjá sig í birtu, af því að þær óttast eigi næma glöggskygni dómarans; sumar geðjast eitt sinn, aðrar þótt tíu sinnum sé á þær horft.

Þótt faðir þinn sýni þér, þú hinn ungi maðr, er eldri ert ykkar brœðra, rétta leið með orðum sínum, og þú hafir gott hyggjuvit af sjálfum þér, þá hugfest þó þessi orð mín: Sumir hlutir mega vera að eins í meðallagi og þolanlegir. Svo er til að mynda um lögfrœðing og málflutningsmann, sem í meðallagi er, að hann nær eigi dugnaði hins orðsnjalla Messöllu, og hefir eigi kunnáttu við Kascellíus Álus, enn þó er hann hafðr í metum. Enn hvorki menn né guðir né bóksúlur hafa leyft, að skáld sé að eins meðallagi góð.

Svo sem ósamhljóða samsöngr geðjast eigi við þægilega máltíð, né þykk smyrsl, né svefngras og hunang frá Sardey, þvíað máltíðin gat fram farið án þessa, svo er og um kvæði, er sköpuð eru og fundin til að skemta mönnum, að þau þykja engu nýt, hvað lítið sem þau vantar á hina mestu fullkomnun.

Sá er eigi kann leik, tekr eigi á þeim vopnum, er á Marzvelli eru höfð, og sá er eigi kann að fara með hnött, kastkringlu eða leikhring, heldr kyrru fyrir, svo að hinn þétti mannhringr, er umhverfis stendr og á horfir, hlæi eigi að honum að ósekju; enn þó áræðir sá að yrkja, er eigi kann. Hví eigi svo, þar sem hann er frjáls og frjálsborinn, enn þó einkum, er hann hefir fram talið fulla fjárupphæð riddarastéttarinnar og er laus við öll mannlýti?

Þú munt ekkert mæla eða gera móti skapi Mínervu. Svo ert þú viti borinn og svo skapi farinn; enn ef þú þó einhverju sinni yrkir eitthvað, þá lát það koma listdómaranum Mecius til eyrna, svo og föður þínum og oss, og geym það á níunda ár, og lát bókfell þitt liggja í bókakistli þínum; munt þú geta ónýtt það, er þú hefir eigi látið koma fyrir manna

sjónir ; enn það orð, er slept hefir verið, mun aldrei aftr hverfa.

Hinn helgi túlkr guðanna, Orfevs, fældi skógfólkið frá vígum og viðbjóðslegri fœðslu, og var fyrir þá sök um hann sagt, að hann mýkti tígra og grimm ljón. Sagt er og, að Amfíón, sá er reisti háborgina í Þebu, hafi fœrt steina úr stað með hljómi hörpu sinnar og flutt þá með blíðri bœn hvert er hann vildi.

Speki manna var forðum í því fólgin, að greina sundr alþjóðleg og einstakleg málefni, helga hluti og óhelga, svo og að aftra mönnum frá lausaleik, gefa hjónum lög, reisa borgir, rista lög á tré. Svo hlutu hin guðlegu skáld og kvæði þeirra heiðr og frægð.

Næst þessum bar Hómer af öðrum, og Tyrteus, er hvatti með ljóðum sínum karlmannlega hugi til marzkra styrjalda ; í ljóðum vóru og goðsvör veitt og sýnt, hversu menn skyldu haga lífi sínu ; með bragháttum hinna píersku dísa freistuðu menn og að ná hylli konunga, og sjónleikr var upp fundinn, er menn skemtu sér við, þá er þeir höfðu lokið hinum löngu störfum sínum. Þessa get eg, til þess að þú fyrirverðir þig eigi fyrir hina harpkœnu ljóðdís eða sönggúðinn Apolló.

Þess hefir spurt verið, hvort kvæði yrði loflegt af skáldgift mannsins, eða af kunnáttu hans. *Eg* sé hvorki, hvað ástundun orkar án auðugs skáldanda, né heldr, hvað mentunarlaus skáldgift megnar ; svo þarf hvort annars fulltings, og svo legst hvort tveggja vinsamlega á eitt.

Sá er stundar að ná hinni tilfýsilegu súlu á hlaupi, hann hefir orðið að þola og gera margt í bernsku, orðið að þola heitt og kalt, og firrast ástir og vín ; sá er þeytir hjóðpípu í hinum pýþnesku leikum, hefir fyrr orðið að nema og verið hræddr við kennara sinn. *Nú* er nóg að segja : ‘Eg yrki ágæt kvæði ; fjúk fái sá er síðastr verðr ; það er skömm fyrir mig að verða eftir og játa, að eg alls eigi kunni það, er eg hefi eigi numið’.

Skáld það er auðugt er að fasteign og leigubæru fé, kveðr menn til sín til ábata svo sem kallari, sá er saman dregr múg og margmenni til vörukaupa ; enn ef skáldið

getr enn fremr veitt góða máltíð, gengið í veð fyrir lánstraustslausan fátœkling og losað þann er við óþægileg málaferli er riðinn, þá furðar mig, ef því tekst í gleði sinni að greina falsvin frá sannvini. Enn þá er þú annað hvort hefir gefið einhverjum eitthvað, eða vilt gefa, skalt þú eigi leiða hann fagnaðarfullan til ljóða þinna, þvíað þá mun hann kalla hátt: 'Enn hvað það er fallegt og vel ort og ágætt!' Hann mun blikna af þessum skáldskap og jafnvel dreypa táradögg af vinsamlegum augum, hann mun hoppa upp og stappa fœtinum í jörðina. Svo sem þeir er leigðir eru til gráts við útför manna, mæla og gera nálega meira, enn þeir er harm bera af heilum huga, svo lætr smjaðrarinn sér meira um finnast, enn sá er af alhuga lofar.

Þá er konungar vilja sjá, hvort einhver er vináttu þeirra verðr, er mælt, að þeir leggi að honum með mörgum bikurum og þröngvi honum með óblöndnu víni. Ef þú yrkir kvæði, skaltu aldrei láta þann hug, er dylst í refsbelg, tæla þig.

Ef eitthvað var lesið fyrir Kvintilíusi, mælti hann: 'Lagaðu þetta, kunningi, og þetta'. Ef menn þá sögðu, að þeir gæti það eigi betr, að þeir hefði reynt það tvisvar eða þrysvar árangrslaust, þá bauð hann að ónýta hin illa smíðuðu vers og leggja þau aftr á steðjann. Ef menn nú vildu heldr mæla því bót, er áfátt var, enn lagfœra það, talaði hann eigi framar nokkurt orð um það, né eyddi nokkurri fyrirhöfn til einskis til þess að varna mönnum að dá sig og sín kvæði samkeppnislaust.

Góðr maðr og skynbær mun finna að listlausum vísuorðum, lasta þau er stirð eru, gera svart þverstryk með ritreyr sínum við hin ólögulegu, sníða brott of íburðarmikið skraut, neyða höfundinn til að gera það ljósara. sem er heldr óglögt, finna að því er tvírœtt er, einkenna það er breyta þarf, og verða svo Aristarchus. Hann mun eigi segja: 'Hví skyldi eg styggja vin minn í smámunum?' Þessir smámunir munu gera þeim alvarleg óþægindi, er eitt sinn hefir verið að hlegið og illa tekið.

Vitrir menn varast að koma nálægt vanvita skáldi og firr-

5*

ast það svo sem þann er þjáðr er af illum kláða eða gulu, eða vitleysu og tunglsýki; enn ungir sveinar hrekja hann og hrjá og elta hann ógætilega. Ef nú slíkt skáld er einhvers staðar háleitt á reiki og spýr úr sér vísuorðum, og dettr þá í brunn eða veiðigröf, svo sem fuglari, er hyggr að þröstum, stoðar eigi þótt það kalli, svo að langan veg heyrist: 'Æ, hjálpið mér, góðir menn'. Enginn mun þó hirða um að taka það upp. Enn þótt nú einhver vildi veita því lið og renna vað niðr til þess, mun eg segja við hann: 'Hvernig veiztu, nema hann hafi kastað sér hér niðr vísvitandi og vilji eigi, að sér sé bjargað, og mun eg þá segja þeim manni dauðdaga hins sikileyska skálds. Empedókles fýsti að fá það orð á sig, að hann væri ódauðlegr guð, og stökk því kaldr ofan í hina heitu Etnu. Skáldum sé rétt og leyfilegt að fyrirfara sér; sá er varðveitir líf manns í móti vilja hans, gerir hið sama sem banamaðr hans. Það er eigi í fyrsta sinni, sem hann hefir gert þetta, og eigi mun hann framar verða maðr, þótt hann verði aftr upp dreginn, né heldr sleppa löngun sinni til alrœmds dauðdaga. Eigi er og hœgt að sjá, hví hann fæst við kveðskap, hvort hann hefir kastað af sér vatni á ösku föður síns, eða verið svo guðlaus að hreyfa við hryllilegum eldingarstað; víst er hann óðr og fælir fáfróðan sem fróðan með hvimleiðum lestri sínum, svo sem bjarndýr, ef því tekst að brjóta grindrnar fyrir búri sínu; enn ef hann nær í einhvern, heldr hann honum og mer úr honum lífið með lestri sínum, blóðsugan, sem eigi sleppir húðinni, fyrr enn hún er orðin full af blóði.

# Eftirmáli.

Árið 1864 gaf hið íslenzka bókmentafélag út eitt hefti af þýðing yfir bréf Hórazar eftir aðjúnkt Gísla Magnússon og mig. Náði sú þýðing yfir níu fyrstu bréf hinnar fyrri bókar og 35 vísuorð hins tíunda bréfs. Í þessari þýðingu og þeim athugasemdum, er henni fylgdu, átti Gísli Magnússon miklu meira hlut enn eg. Ýmsar annir okkar beggja ollu því, að framhald þýðingarinnar kom eigi út. Þó lukum við síðar við þýðinguna, og vóru af henni prentuð bréfin $10_{35}$ —$14_{16}$ af hinni fyrri bók í prentsmiðju Einars Þórðarsonar. Það voru tvær arkir, að því er mig minnir. Þessar arkir fékk eg þá eigi hreinprentaðar, og hefi síðar eigi getað fengið þær þrátt fyrir margar tilraunir, og með því að handritið af þessum kafla þýðingarinnar hefir glatazt, hefi eg einn þýtt hann. Þýðing af því er eftir var af bréfunum var til í handriti, þá er Gísli Magnússon andaðist, árið 1878. Eg hefi yfirfarið þýðinguna af nýju, bæði hið prentaða og hið óprentaða, og vikið henni lítið eitt við, einkum að því leyti, að eg hefi sett nýjari orð í stað þeirra er of forn þóttu. Meiningunni hefi eg og breytt á fáeinum stöðum.

Vinr minn, Dr. Björn Magnússon Ólsen, hefir góðfúslega lesið handrit mitt yfir, og hefi eg gert ýmsar breytingar eftir athugasemdum hans og tillögum. Hann hefir og aðstoðað mig við prófarkalestrinn. Fyrir þessa hjálp votta eg honum hér með mínar beztu þakkir.

Í apríl 1886.

Jón Þorkelsson.

## Leiðréttingar.

| | | |
|---|---|---|
| $4_{36}$ | eld | *les* elda |
| $27_{26}$ | getr | — hefir |
| $28_{28}$ | eirpening | — einpening |
| $37_{11}$ | asna | — óþægum asna. |
| $61_{28}$ | skammstafa | — samstafa |